Kvølldmaltijdena/sem oss verdur pramboden i Guds Orde/og þm heilogu Sacramentis. Eñ hvar pirer (kan einhvør ad seigia) kallast. þsse Kvølldmaltijd mikel? Þar til svara eg/ad þar eru bæde vissar og Viktugar Ordsaker til. Nin pirsta er/ ad Veitaren/ eda sa sem Kvølldmaltijdena giører/er ecke eirn sliettr Herra/helldur Eilijfur Almattugur Gud. Þar næst kallast hun mikel/vegna þss mikla Kostnadar/sem sa Himneske Faderen hefur firer þssare Kvølldmaltijd/i hvørre hañ giefur til Andlegrar Fædu/siñ allra Elskulegasta Son/hver ed i Ordenu og Sacramentunū verdr þ oss a Bord borin. J þridia lage mma þtta heita ein stoor Kvølldmaltijd/vegna þrra ypparlegu og mikelshattar Sendeboda/sem Gud hefr þra Veralldaren Upphafe/hafft til þss/ad biooda i þssa Veitsluna/so sem ad eru þr N. Patriarchar/ Spamen og Kongar.

J Fiorda lage/heiter þtta med riettu su stoora Kvølldmaltijd/ vegna þss mikla Mañþiollda/sem til heñar verdur bodin/þvi hier til verda bodner aller Meñ og Heimenum. J Fimta mata/ma þ vel heita stoor-Kvølldmaltijd/vegna þss stoora Gagns og Nitsemdar/sem Trwudum þar af stendur/þviad hvør hañ etur mitt Holld/og dreckur mitt Blood/seiger Herrañ Christur hia Joh. 6. Sa hefur Eilijft Lijf og eg mun uppvekia hañ a epsta Deige. J Siøtta og sijdasta mata/ er hun/ og ma heita stoor Kvølldmaltijd/vegna þss/ad hun varer ecke ad eins um litla stund/helldr allt til Heimsins Enda. O hvølijkt Giestabod? O hvølijk Dijrdleg Kvølldmaltijd er þtta? Hvør skillde ecke þeigeñ og giarnañ vilia koma til þssa mikla Giestabodsins/og þ mikels virda? Seigiande med hinu heilaga David/ af Psalm. 31. Hvørsu mikel er þiñ Godgirne O Drotteñ/hvøria þu hefur geimt þm sem þig ottast? etc. etc.

Þegar Mephiboseth heirde/ad hñ ætte ad sitia vid Kongsins Bord alla sijna Lijfdaga/þa audmijkte hañ sig stoorlega firer Kongenum og sagde/hvør er eg þiñ Þræll/ad þu snijr þier til eins dauds Hunds/sem eg er/ 2. Sam. Bookar. 9. Cap. Hvad miklu þramar ættum vier med Hiartans Audmijkt og Lijtelæte/ad þalla flater fram þirer þm ædsta Kongeñ allra Konga/og þacka hønum þar þirer/ad hañ ecke ad eins/ Sinnur og einu sinne i Aare hvøriu/helldur a hvørium og einu Deige/til-

Þrar-

Þrar miklu Kvølldmaaltijdar/og Lambsins Bruudkaups?

Hvørier eru þa/þr sim sa Ninneske Hus herran utsender/til ad bioda til Þrar miklu Kvølldmaaltijdar? Hier um hlioodar svo Textenn. Og hann wtsende sijna Þienara um Kvølldmaals Tijmann/ad þr seg de þeim sem bodner voru/Komed/þviad nu eru aller Hluter til reidu. Firer þssa Þienara merkiast og skiliast þr heilogu Spaamenn/ Postular/ꝛ aller Trulinder Ordsins Þienarar/ hvøria Gud hefr ꜳt ijd i fra Upphafe utsendt/til ad bioda til þessarar Kvølldmaaltijdar. Til hennar baud sialfur Gud Forfødurnu Noa/og Noe sijdann øllum Heimenu Gen. 6. Epter Flooded/ voru bodner til þessarar Kvølldmaaltijdar/ Abraham/Isaach og Jacob. Sijdann þar epter liet Gud Spaamenn-ena/bioda sijnu eigenn Folke/til þssarar Kvølldmaaltijd/allt til þss hn sende sinn Eingietna Son JEsum Christum/ hingad i þennann Heim/ hvørn hn kallar sinn Þioon/hia Spaamannenum Es. 53. Epter Christi Himna For/liet hn Postulana bioda ollu Folke/epter þvi sm liost er af Befalningu sialfs Herrans Christi/hia Matth. 28. Enn hvo tnenn velskeſter hafe teked þssu Tilbode Lifanda Guds til Þrar miklu Kvølldmaaltijdar/þ faaum vier ad heira/i þvi ødru Greinarkorneuu/hvørt nu epterfylger med einu Orde.

## Aunnur Greinenn.

OG ÞEir TOku til Aller i senn ad Afsaka sig/seiger Gudspiallamadurenn. Hier setur nu Herrann Christur oss firer Siooner/þa Hrædelegu Blindne/og Opacklæte/sm Manneskiann a ad sier/ ad hun þecker ecke sinn Vitiunar Tijma/ Luc. 19. Hvad þo ecke sijdst sannast a, þvi auma Gidinga Foolke/hvørin Gud Drottenn liet ecke einusinne/ heldur optlega bioda til Þrar stooru Kvølldmaaltijdar bæde firer Predikun Johannis Skijrara/Postulanna og sialfs Herrans Christi/ enn þr villdu þo samt ecke koma/berande firer sig einar og adrar faanytar/ Ja/ einskis verdar Afsakaner/so sm vier faaum þssu næst ad heira.

Eirn ber þ firer sig/ad hn hafe keipt WB-Gard/ og verde hn þvi endelega ad fara ut og skoda hn/ ꝛc. ꝛc. Hvørs Lijkar og samningiar

 ad eru

Werralleg þr/sem leggia sig epter meir enn Noofe giegner/ad koma und er sig Fasteign sijns Naunga/og vilia lijted eda eckert firergiefa/ Jaa/ ecu alldrei til Frids/firr enn þr gieta eignad/ edur Nefdad med eitthvørt slag/Land og Reka undann annara Manna Jørdum. Yfer þssum hrodpar Aude Guds Þri/hia Spamannenum Es. 5. Cap. seigiande/Vei þm sem samann draga eitt Hws til annars/ og leggia eirn Akur til annars/ þangad til ad þar er ecke meira Rwm til/ et. et. Item stendur so j Deut. Book. 27. Ad Bølvadur skule sa vera sem samann færer Landamerke sijns Naunga.

Annar sa sem bodenn var/ til þssarar Kvølldmaaltijdar/ Affsakar sig þar med/ad hann hafe KEipt FImm AK Neite/Og VIle Nu Ad FAra VI Og REina þAu. Vid hvørn ad lijkiast aller Agiarner Kaupmenn og Krammar/ sem alldrei laata sier nægiast hvørsu miked sem þeir komast yfer/af Aud og Peningum/og svijkia sinn Naunga j Kaupum og Sølum/so þeir verde þess Rijkare og Rijkare.

Hinn Þridie ver sig med þvi/ad hann hafe FEst Sier KOnu/Og meige þss vegna ecke koma/ þad er/hann meige ecke vinna þ firer neirn Hlut/ ad yfergiefa Brwdslaun sijna/ og þ Gagn sem hann meige þar afhafa.

Þetta er nu þ/med ødru fleira/sem Mønnum giører Skada/og þa drege fra Nádar Kvølldmaaltijdenne DRottens. Ecke þss vegna/ ad þsser ædurnefnder Hluter/ sieu j sialfum sier Fordæmanleger/ edur skadleger Hluter/edur hindre vorn Christendoom/edur Saaluhialp/þviad Rijkedæme og Tijmanleg Audlegd/er Guds Blessan. Lijka hafa þr heilogu Forfedur/Abraham/ Isaach/og Jacob/att Akra og Fie/so sem Heiløg Ritning vottar. Þar hafa og so ecke ad eins gooder og Gudhrædder Kongar og Spamenn/helldr og eirnenn/ nockrer af Postulunum/ vered Eigenngipter/og giørdu eckert Rangt þar wti. Hier af er þ gott ad skilia/ad Aungvannveigenn er þ o=leifelegt/þo Madur eige Akra og Kvikfie/eda sie eigengiptur/enn þ/ad festa so Hiarta sitt/vid þssa Stundlega Hlute/ad Madur yfergiefe þar fyrer þ Andlega og Eilijfa/þ er þad sem Herrann Christur hier Straffar og Adfinnur.

Þridia

# Þridia Greinenn.

NV er ad miñast a þ þridia/ sm̄ er/ hvørs Straffs þr hafe siet ad vænta/ sm̄ forsmaa þtta Herrans Christi Giestabod/ og skulum vier vita/ad þ er sierdeilis Ferfallt Straff/sm̄ yfer þm̄ hanger.

First er þ/ ad Þienarar Lifanda Guds klaga pa/og seigia sijnū Herra fraa þra Ogudlegleika og Ohlijdne/so sm̄ ad giørde Þienare þssa Hwsherrans/hvør ed kūngiørde sijnū Hwsbonda/ad þr sm̄ bodner voru hefdu ecke viliad koma. Fyrer þssare Ohlijdne tekur Ande Guds einū og sierhvørium sterkañ Vara j Pistlenū til Heb. 13. seigande/Hlijded ydrum Kieñefedrum/og fylged þm̄/þviad þr vaka yfer ydrū Saalum/svo ad þr giøre þ m̄d Glede/enn ecke m̄d Andvarpan/þviad þad er ydur ecke gott.

Añad Straff sm̄ koma mun yfer alla Guds Orda og Sacraments aūa Forácktara/er su hrædelega og Ognarlega Guds Reide/sm̄ breñur allt nidur til Helvijtis/ þvi j Textanum stendur/ ad Hwsbondeñ hafe Ordet REidur. Mørgū þiker þ miked/þa hñ verdur fyrer Reide og Ogünst sijns Herra/so s ad skiede Drottninguna Vasthi og Haman/ Esth. 1. og 7. Eñ hvad er Reide Mañaña ad lijkia vid Guds Reide? Þad feingu þr Core/ Dathan og Abiram ad vita fordum/sm̄ sucku Lifande nidur til Helvijtis/fyrer þ þr mögludu a moote Guds Manne Moyse/ Num. 16. Item/ þr j Sodoma og Gomorra/ Gen. 19. Og adrer fleire.

Þridia Straff þra Ogudlegu/s ecke vilia hlijda Herrans Þienurū/ og koma til þrar Andlegu Kvølldmaaltijdareñar/ þa er þad/ad þr verda utreknir/eñ adrer jñtekner j þra stad/so s skied og framkomed er alla reidu vid þa aumu Gydinga/ j hvørra stad ad Gud hefur kallad aptur Heidingia/epter þvi sm̄ Herrañ Christur hafde þm̄ ádur hootad hia Matth. 21. Cap. Ad Guds Rijke skillde fraa þm̄ takast/ og Heidingium giefed verda/þeir sem þar af Avøxt færa.

Fiorda og sijdasta Hefndarstraff/sem Gud hootar øllum Ogudlegū/ sm̄ laata sier meira umhugad vera um þtta stundlega og forgeingelega/

sega/helldur en um sijna Sælar Velferd og þad Himneska Giestabod, ed/þa er þetta sem hier stendur skdast i Epterlijkinguñe/ þar Herrañ seig er/ Eñ eg seige ydur/ ad eingeñ þeirra Mañá sem kallader voru/ munu smacka mijna Kvølldmaltijd. Og kiem̃ þad hier fram / sem An de Drottins talar fijrer Munn Spamañsins Hos. 4. seigiande/ Af þvi þier hafed kastad i burt fra ydur Guds Orde/ þa vil eg aptur i stadeñ kasta ydur i burt fra mier/ þad er ad skilia/ ad sa Himneske Hwsherr, añ vill lata slijka Forachtara sijns dyrmæta Giestabods koma i Andlegt Hungr ꝛc. Þorsnun ꝛc. signada Himnabraudsꝛc. fara toomhendta ꝛ su auda fra sijnu Himneskū Giædū ꝛ Audæfū/ ꝛ rata i kreptugañ Villu dom/hvar fra Gud vardveite oz alla i Jesu Nafne. Og þeim hinū sama Eilijfū/Almattugū Gude Fødur/Syne og Heilogū Anda/seigiū vier Lof ꝛ Packer f alla sijna Nadar Velgiørninga/nu og ævinlega/Amen.

# Þridia Sunnudag epter Trinitatis.

Evangelium Luc. 15. Cap.

ANN aller Tollheimtumenn og Bersinduger nálægdu sig til hañs/ so ad þeir heirdu honum/ Og hiner Skriptlærdu og Phariseí mogludu um þad/ og søgdu/ þesse med tekur Bersinduga Menn/ og etur med þeim. Eñ hañ sagde til þeirra/ þessa Epterlijking/ so seigande. Hvør sa Madur af ydur/ sem hañ hefur Hundrad Sauda/ og ef hañ glatar einum af þeim/ yfergiefur hañ ecke þa niju og nijutijer a Eidemørku / og fer epter þeim sem ad glatadest/ þangad til hañ fiñur hañ. Og þa hann hefur funded hann / leggur hann þañ sama (med Fagnade) sier a Herdar/ kiemur heim/ og kallar samañ Vine og Nabwa/ og seiger til þeirra. Samglediest med mier/ þviad eg hefe miñ Saud aptur funded/ þann sem glatadur var. Eg seige ydur/ ad lijka so mun Fognudur vera a Himnum/ yfer einum Sindugum sem Idran giører/ meir eñ ifer þeim niju og nijutijer Riettlatū/ sem eige þurfa Yferbootar vid. Eda hvør er su Kona sem hefur tiju Peninga/ ef hun

ef hun tỹnet einum/ er eige so/ ad hun kveiker Lioos og sopar Hwß ed/ og leitar vandlega/ þangad til ad hun finnur hañ/ Og þa er hun hefur hann funded/ saman kallar hun Vinkonur syṅar og Grann konur seigande. Samglediest med mier/ þviad eg hefe miñ Pening aptur funded/ hvorium eg tynda. Slyka so og seige eg ydur/ þad Fognudur mun vera fyrer Einglum Guds/ yfer einum Syndugum þeim ed Yferboot giorer.

# Exordium.

Numeri Bookar 12. Cap. Lesum vier/ ad þegar Moyses hafde sier til Ecta teked þa Morlendsku Kvinnu/ þa hafe hns Brodur Aaron/ og hans Systur Mariæ/ mishpockuast þad so miøg/ og þau aavijtudu hañ þar fyrer hardlega/ þvi þau meintu ad sier bæde og siñe Ætt/ munde verda O-virding þar ad/ ad þvilijkur Madur sem Moyses var/ skillde gipta sig/ og ad sier taka eiña Moriñu/ og hafa Vmgeingne vid hana/ þar hun var Heideñ. Þetta kañ vel heim ad færast til þessa Dags Gudspialls/ þvi þa Phariseí og Skriftlærder sau og formerktu ad Herrann Christur (hvørn Gud hafde heited ad senda sijnu Folke/ i Moysis stad) hafde Vmgeingne og Samtal vid Tollheimtumeñ og Bersind uga/ þa kuñu þeir þad j aungvañ Mata ad lijda/ helldur mogludu þar yfer og sogdu/ þesse medtekur Bersinduga Meñ/ og etur med þeim/ Meinande ad slijkt være Osæmelegt og Olijdande/ og tooku sier þar fyrer hier vt af Ordsok/ ad mijnka hns Persoonu/ so sem hañ være aungvu betre eñ þesser sem hañ umgiedst so med. Eñ þeir goodu Meñ skilldu ecke riettelega Vnderstødu þessa Efnis. Þvi þess vegna var Herrañ Christur komeñ hingad ad j þeñañ Heim/ ad hañ kallade þa Syndugu til Ydrunar/ og leitade ept er þvi sem tapad var/ Matth. 18. So sem hañ þeim þad eñ klárlega aadsyner/ med þessu tveimur Epterlijking um/ sem hann setur fram/ i þessu Heilaga Evangelio/ hvørt vier vilium med fæstu Ordum einfalldlega yfer vega i þetta siñ/ og vil ut af þvi þriar smaa greiner firer Hendr taka.

Og skal hin fyrsta vera um þessa Tollheimtumeñ og Bersinduga/ sem nalægdu sig Herranum Christo. Auñur um Murr og Mogl. Pharisæaña

Afleña/ ꝛ. Fra Skriftklærdu. Og Nu þridia, um̃ Forsvar Christi/ sem hañ framsetur aptur þeim i moote.

GUD Hialpe oss med siñe Naad/ so vier mættum hier ut af nockud gott læra/ og oss til Nytsemdar færa/ Amen.

# Firsta Greiniñ.

FIrra Suñudag heirdum vier talad um þa miklu Kvølldmaaltijd/ sem Gud Drottiñ hefur tilreidt og bodid øllum Møñum/ firer Predikun Heilags Evangelij/ i Christelegre Kyrkju. Eñ i Dag verdur oss kient/ hvørniñ vær kuñum til heñar ad komast/ sem er/ firer saña Jdran/ þa ut er med þessum Tollheimturum og Bersyndugum/ nalægium oss Herra num Christo/ þvi so stendur i upphafe Gudspiallsins/ Ad aller Tollheimtumeñ og Bersynduger hafe nalægt sig til hñs/ so ad þeir heirdu Hønum. Þrent er oss hier athugande. Firsti/ hvad firer Folk ad vered hafe þesser Tollheimtumeñ og Bersynduger. Þar næst/ hvad þeir hafa giørt edur adhafst. Og i þridia lage/ hvørt Erende þeir hafe haft til Christum. Hvada Folk ad Tollheimtumeñerner hafe vered/ þad vitnar heilog Ritning allvijda/ sem er/ ad þeir voru þeir mestu Stor syndarar/ sem vegna siñar illrar Breitne/ voru hatader af øllu/ hvers vegna sialfur Herrañ Christur samlijker þeim vid Gudlausar Mañeskiur/ sem ecke ackta firer nockra Aminning/ so seigiande/ hia Matth. 18. Ef þiñ Broder brijtur vid þig/ og skeiter hvørke um Heimuglega nie Opinberlega Aminning/ þa halltu hañ sem añañ Heidingia og Tollheimtu Mann. J þessara Selskap voru og so adrer/ hvørier hier nefnast Bersynduger/ þr voru og ecke helldur betre eñ hiner/ eñ allt um þ/ þsser koma þo samt til Christi/ medkieñandi siñar Synder/ og bidia hañ um Naad/ hvøria þr eir neñ fa. Þar firer/ miñ Broder ꝛ Syster/ siertu eiru Tollheimtumadur/ siertu eirn Stoorsyndare/ Ja/ hiñ Meste a medal allra añara Syndara/ so sem Paall Postule jatar um sig/ 1. Tim. 1. Þa orvæntu þier samt ecke Guds Naadar/ eins og Cain/ Gen. 4. Helldur Huggadu þig og Hughreistu vid Dæme Davids/ Manassis Kongs/ Mariu Magdalenu/ Zachæi/ Postulans Paals/ S. Peturs/

og ꝛc.

ꝛ aňata fleire Stoprſyndara/ Hvørier aller feingu Nad fyrer likanda Gude / og bid þu af Hiarta med hinū heilaga David/ aþ Psalm. 51. Myſkuna þu mier Gud epter þiñe Myſkunſeme/ og aþmaa mijnar Synder epter þiñe ſtooru Myſkun. So muntu viſſulega faa þad ſama And ſvar og Aþlauſn ſem David fieck/ ad Gud hafe burt tekeđ þijna Synd/ 2. Sam. 12. Þar næſt er þad næſta Huggunarſamlegt/ firer oſſ Syndarana/ Ad JEſus vor vill ecke reka oſſ fra ſier/ nær ſem hellſt vier komum med ſañre og alvarlegre Jdran fraṁ fyrer hañ/ ſo ſem hann rak ecke þſſa Tollheimtumeñ i burtu/ þviad/ þo mørg og ſtoor ſie Mañleg Synd/ myklu ſtærre er Nadeñ/ Endalaus er Guds Hialpar Nenđ Hvørſu ſtoor ſem er ſkadeñ/ etc.

J aňañ maata villium vier ſkoda og yfervega hvad þſſer Tollheimtumeñ og Syndarar hafe giørt og adhafſt/ ſm̄ er/ ad þeir komu ꝛ giordu ſier Reiſu til JEſum. Og eru eingeñ Olijkende ad þr mune hafa vered under Predikun Johañis Skijrara adur/ þa hñ ſo kiendi ꝛ ſagde Aureñ er ſett til Rootar Trieſins/ og hvørt þ Trie ſem ecke ber good añ Avørt ſkal upphøggvaſt ꝛ i Elldkaſtaſt. Þeir hafa og heirt ſagt fra þvi allra Huggunarſamlegaſta JEſu Chriſti Tilbode/ þar hann ſeiger. Komed til mijn aller þier ſem Ervided og þunga erud hladner/ Jeg vil Endurnæra ydur/ Matth. 11. Og þar fyrer ſyneſt þeim þ Radlegaſt/ ad rijſa upp af ſijnum Synda Svefne/ og koma til JEſum/ ꝛ jaata hønū ſijnar Synder. O Gud giæfe ad vier og eirneñ epterfylgium fra Dæme i þſſu. Þvi hvad marger Tollheimtarar ꝛ Berſynduger/ fiñaſt nu a þſſū Døgum/ Eñ fæſter þo aþ þm̄ vilia nalægia ſig Herranum Chriſto/ med ſañre og alvarlegre Ydran ſiña Sinda/ helldur geingur þ myklu helldur ſo til/ ſem Spamadurenn Jeremias ſeiger/ 8. Cap. Hvør er ſa nockur ſem villt fer/ ad hann vilie ecke giarnañ komaſt a þñ retta Veigeñ aptur. Samt vill þo þ ekla Foolk ætijd og alla Tijma villt fara/ þar er eingeñ ſem lætur ſier miſlijka ſijna Jllſku/ og ſeige/ hvad er þ eg giøre? helldur hlaupa þeir aller ſitt Hlaup/ ſo ſem grimmer Ulfheſtar j Bardaga. Þar fyrer ſie hvør og eirn aminntur j Nafne DRottens/ ad hñ drage ecke undañ ad ſnuwa ſier

wa sier til Guds/ og skiota þvi ecke fra einu Deige til annars/ helldur betra sig/ a medan Nadartijmenn er/ þviad þ kann þyrer Kvølldtijmann ødur vijse adverda enn þ var um Morgunenn/ og slijkt skiedur snarlega þyrer Gude/ seiger Syrach. 5. og 18. Cap.

Hvørnenn (kann einhvør ad seigia) edur med hvørium hætte a eg ad nalægia mig Herranum Christo/ og koma til hans? Fyrst attu minn Brooder og Syster/ ad giøra þad/ med einarre heitre og alvarlegre Bæn/ og Jatningu þinna Synda/ seigande med þeim þortapada Synenum/ Fader eg hefe Syndgad i Himenenn og þyrer þier/ og er þvi ei verdugur ad kallast þinn Sonur/ Luc. 15. Cap. Þviad hvør hann neitar sijnum Misgiørningum/ þeim mun þ ecke vel vegna/ enn sa sem þær medkienner og þyrerlætur þær/ mun Myskun ødlast/ seiger Salomon/ j Ordskvida Book. 28. Cap. Þar næst eigum vier ad koma fram þyrer Gud/ med fullu Trunadartrauste/ þ er/ ad vier efunst ecke/ edur ørvæntum oss Guds Nadar/ vegna vorra Synda/ helldur seigium med Postulanum Pale/ Christur hefur mig elskad/ og utgiefed sialfann sig þ mig/ Gal. 2. J Þridia lage ef vier viliu rietteleg fram koma fyrer Gud/ þa siaum til/ ad þ meige skie med Christelegum og Gude velþoknanlegum Verkum/ þvi Christur er sa allra heilagaste/ þar þyrer hvør til hans vill koma/ sa hlijtur ad afleggia allann Ohreinleik og Illsku/ enn epterfylgia Helguneñe/ an hvørrar þ eingenn kann DRotten ad sia/ seiger Postulenn til Heb. 12. Þegar vier þetta giørum og so fram komum fyrer lifanda Gud/ sem er/ med heitre og alvarlegre Bæn/ med sanre og stødugre Trw/ og med goodum og Gude þægelegum Verkum so vill hann aptur a moote/ nalægia sig til vor/ Ja/ hann vill nalægia sig oss/ so sem einn Fader sijnu Barne/ edur so sem einn Brwdgume sinne elskulegre Brwdur/ og kyssa oss hier i Nadar Rijkenu/ med einum Nadar Kosse/ Enn þar sijdar meir j Rijke Dijrdarennar/ med Kosse eilijfrar Glede og Unadsemdar. Þad þridia sem oss er athugande/ j þessu fyrsta Greinarkorneņu/ er/ hvørt Erende/ ad þisser Tollheimtumenn og Bersyndugar hafe haft til Herrans Christum/ hier um talar so Gudspiallamadurenn seigiande/ Ad þr hafe nalægt sig honum/ til ad heira hans

Kiening=

Kieñing/ og Predikun. Oskande være/ ad vier breitkum epter þeim i þssu/ og lietū aungvañ Nut hindra oss þar i fra/ ad koma þangad sm optast sm Guds Ord er kient og um Nønd haft/ eñ hvorneñ þad tilgange þyrer allmørgum/ þad er Gude liooſast.

# Auñur Greineñ.

NV viliñ vier vikia til þss ſyðara Greinarkornſins/ og framveigis ypervega Murr og Mogl þra Phariſeara og Skriptlærdra/ hvar um Gudſpialls Texteñ ſo hlioodar. Og hiner Skriptlærdu og Phariſei Mogludu um þad og ſøgdu/ þeſſe medtekur Berſyndugа Meñ/ og etur med þeim. Nier læta þeſſer Ill-ſkuþüllu ꝫ Auþ undſiuku Meñ/ eñ nu einu ſiñe ſm optar/ i lioose/ hel ſitt og Niartalag/ ſm þr haſa til Nerrans Chriſtum/ i þvi/ ad þr miſuña hønum þſſ/ þo nockrer þæeiner hiellde ſig til hñs/ og hlŷdde hñs Kieñingu. Mun þtta ecke og ſvo eñ nu i Dag/ vera miøg almeñlegt/ ad Undersatarner Mogla i moote ſinum Iþerbødurum/ þr tiſku a moote þm þæ tæku/ og Tilheirendurner i moote ſinū Kieñeþeatum/ og miſuña ſo hvør ødrum ſiñar Luckn og Velþerdar/ Nier þyrer ſeiger Salomon ſo/ i ſiñe Predikunar Book/ 4. Cap. Eg ſæ uppa Ervide og Aſtundan/ i ollū Efnum/ og þa hatade ſæ eine þñ añañ. Nier þyrer ſkillde hvør og eirn þar mz aminkur vera/ ad læta ſig ecke þunden verda I Selſkap ꝫ tølu þvilŷkra Møglunarſamra ꝫ Norrunarſamra Siergiædinga/ ſm alldrei gieta til Frids vered. Iæ/ þſſer Phariſearar møgla ecke ad eins og murra/ i giegn Nerranū Chriſto/ helldur ꝫ eirneñ þæ þoradkta þr hañ þar ad auke/ i þvi/ ad þr virda hñ ecke þſſ/ ad kalla hñ ſinu riettu Naþne/ helldur komaſt ſo ad Orde/ og ſeigia/ ÞEſſe MEdtekur Berſynduga/ etc. et. Slŷker ꝫ þvilŷker þiñaſt enn nu æ þſſū Døgū Mæmarger/ ſm hallda ut af ſiælþū ſier/ eñ þoradkta ꝫ þorſmæ adra. Nvad opt meiga gooder ꝫ Trwlinder Guds Ords Þienarar heira ad um þæ verdur ſagt/ ſm þar ſtendur i 4. Pſalme Davids/ Nvorneñ ſkal þſſe ſyna oſſ þ gott er? Eins geingur þ og ſo til i þre Veralldlegu Stiettene/ ad þr ſm þar iñe þiena haþa

 eirneñ

eitneñ þa sim̃ þa þoracka og lijtels virda / so sim̃ giørt var Saul / Da-
vid og ødrum þleirum. Enn þesser ættu ad hafa i Miñe þ gamla Ord
taked / Nosce te ipsum / þ er / ad læra ad þeckia sialþa sig / adur eñ þr
kostudu Steine a adra.

## Þridia Greinenn.

Epterþylger m: þeßu Ordū / þ þridia Greinarkorned / hlioodande um̃
þær tvær Merkelegu Epterlijkingar / sim̃ Herrañ Christur þramsetur
sier til Forsvars / sim̃ er um̃ þñ villuraſande Saudiñ / ꝛ tijnda Pen-
ingiñ / hier um̃ hlioodar so Texteñ. Hver sa Madur aþ ydur /
sem heþur Hundrad Saude / og ef hañ glatar einū aþ þeim / yfergie
þur hann ecke þa niju og nijutijger a Eidemørku / og fer epter þeim
sem glatadest / þangad til hann þinnur hann? Hvørre Ept
erlijkingu vor allra sætaste Endurlausnare / lijker oss vid eirn tijndañ
Saud. Sinum til / þyrer Fall vorra þyrstu Forelldra vorum vier
asamt med þim̃ heilogu Einglum / hvør med ødrum / Guds elskuleger
Saudier / Psalm. 110. Eñ vegna Svikrædis Dioſulsins erum vier
aller Villuraſande ordner / þar þyrer / þar Herrann Christur talar hier
um̃ þñ tijnda Saudeñ / þa vill hñ oss ámint haþa. Fyrst um̃ Eind vora
og Veikleika / þvi so sim̃ þ / ad þar þinst valla þ Dyr / sim̃ so margvijsleg
um̃ Kvillū sie underokad / sim̃ Saudureñ / so erū vier og so aller / þyrer
þá Arvdlegu Spilling Syndareñar / ymsū Siukdomū hladner / so þ
ma sañast a oss / sem Esaias seiger / 1. Cap. Ad Hofuded sie siukt /
og Hiartad veikt / J fra Hvirfle til Ilia / sie eckert heilbrigdt a oss.

Þar næst lijker hann oss vid eirn Saud / vegna vorrar Favitsku /
þvi lijka sim̃ þ / ad Saudureñ / þa hñ heþur eittsiñ villst þra Hiordeñe
þa kañ hañ ecke aþ sialþū sier til / ad rata heim aptur / helldr þess leingur
sem hñ er i Villuñe / þess villtare verdur hañ. Eins geingur þ til þyr
er oss / ad þegar vier hoþū eitt siñ fared villt / aþ Veige Riettlætesins /
þa kuñū vier ecke af vorū eigeñ Kroptū / ad komast a rietta Leid apt-
ur / þar þyrer seiger David / og vier m: hønū / Psalm. 119. Eg em so
sim̃ villtur ꝛ þortapadur Saudur / leita þu Drotteñ ad þijnū Þioon

þvi eg

þvi eg forgleime ecke þÿnū Bodordum. I Þridia lage/ verdur oss hier lÿkt vid Saudena/ vegna þeirrar stooru Hættu ꝛ Hæskasemda/ sem vier erū i stadder. Þad skiedur opt/ ad Saudaren kiemst i Imis lega Hættu/ ef Hyrderen leitar ecke ad hønū/ þvi bæde kañ hn̄ ad verda sundurrifen af Ulfum ꝛ ødrū Oarga Dyrū. Eins geingur og so Diøfullen sa helvyske Ulfur/ um kryng/ ꝛ leitar ad þm̄ sem hn̄ kune upp ad svelgia. So sæmū til/ ad vier gaungū forsiælega/ eige so sem Fævÿsser/ helldur so sem Vÿser/ og skickū oss i Tÿdene/ þvi þad er vond Tÿd/ seiger Postulen/ Eph. 5. I añan máta/ utmálar Herrañ Christur oss/ Eimd vora og Hørmung/ sem vier erum ifallner/ vegna Falls vorra fyrstu Forelldra / Med þessare añare Epterlÿkingu sem hn̄ tekur hier af þm̄ glatada Peninge. Vær vorū i fyrstu eitn heiløg Gullmint lifanda Guds/ stimplader ꝛ myndader epter hn̄s eigeñ Mind/ og Vÿlæte/ eñ vegna þess døckva Rids Syndareñar/ sem a oss er falled/ erū vier so groomtekner ordner/ ad vier høfum ølldungis mist þa fegurdar Prÿde Gudlegrar Myndar/ og þ forskulldad ad vier hier epter skylldū verda eitn tÿndur ꝛ tapadur Peningur. Eñ hier þvert a moote/ vilium vier athuga ꝛ skoda/ Nad ꝛ Giæskurÿke vors liufa Endurlausnara IEsu Christi vid oss. Þvi so sem þ/ ad Hyrderen sem hafde hundrad Saude/ villde ecke missa eitn af þm̄/ og ei helldur Konañ eitn af sÿnū tÿu Peningum. Eins lÿka er sa Himneske Faderen siñadur vid oss/ ad þo hañ hafe Otal Fiøllda heilagara Eingla/ ꝛ Høfudeingla/ sem hønū þiona/ ꝛ hn̄ Daglega prÿsa/ Dan. 7. Open. B. 7. Þa hefur hañ þo samt þvÿlÿka Hiartans Epterlangan epter vorre Velferd og Sæluhialp/ ad hønū er þ stærsta Angur/ ef eitt af hns Saudakindū skillde forfapast/ Ezech. 18. Þvi hañ er eitn Nadugur Gud/ og Myskunar sig yfer øll sÿn Verk/ Psalm. 145.

Þar næst siaum vier Elsku og Hiartalag Herrans Christi vid oss/ af þeim Textans Ordum sem hier standa/ sem er/ ad Hirderiñ skilur epter þa nÿu og nÿutÿu Saudena a Eidemørku/ ꝛ fer ad leita epter þm̄ sem glatadest/ Item/ Ad Konañ kveiker Lioos/ soopar Hwsed/ og leitar vandlega/ þangad til hun fiñur sinn Pening. Þetta hefur nu

Hina Andlega Vidding. Firer Hirderenn skilst Christur / Joh. 10. Og sem um hann hefur vered spaad / ad hann vilie uppleita þad glatada / x: leida aptur þad sem villtest / og græda þad hid Lemstrada / Ezech. 34. So hefur hann þad og so vel og trwlega giort / og aungvum glatad af þeim sem hans Fader hafde honum gefed / Joh. 17. Firer Konunga m. ad skiliast Christeleg Kyrkia. Hun kveiker eitt Lioos / hvørt ad er GUDs Ord / tekur Vønd Løgmaalsins / og soopar Hwsed / þad er / hun lætur predika skarpa Løgmaalsins Predikun / og lætur þar ecke af / allt til þss / ad marger þeir verda fundner / sem annars hefdu mætt eilijflega fortapader liggia i Helvijte. Hvad skillde nu sa Himneske Hirderinn og Vijngards Herrann / meira giøra vid sinn Vijngard / sem hann hefur ecke giørt? Esa. 5. Nu so sem þad / ad aller gledia sig med Hirdernum / þa hann hefur sinn Saud aptur funded / og med Kvinnune / þa hun hefur funded Peningenn / bæde Naabwarner / Grannkonurnar og adrer fleire. So seigier og so HErrann Christur i Niðurlæge þessa Heilaga Evangelij / AD Fagnadur mune verda firer Einglum Guds / yfer einum Syndugum sem Yferboot giører / meir enn yfer niju og nijutijger Riettlaatum / sem ecke þurfa Yferbootar vid. Þad er / þeir sem Riettlaata sia lysa sig / og þikiast hvørke þurfa Yferbootar / nie Jesu Forþienustu vid / eins og Pharisei. Enn hvar af kiemur þa (kann einhver ad spiria) þesse Glede Heilagra Einglaa? Hun kiemur þar af / ad þeir eru þionustu samer Andar / wtsender til þionustu / vegna þeirra sem erfa skulu Saalu hialpena / Heb. 1. Ja / yfer Saaluhialp vorre / munu ecke Einglarner alleinasta gledia sig / helldur og eirnenn Eingill þess mikla Raads / vor Drottinn Jesus Christus / af þvi hann sier / ad þar eru marger / sem hafa haft Not af sinne Forþienustu / Pijnu og Dauda. Þar gledia sig x: so Jesu Christi Þienarar / sem eru aller trwer Prestar og Kiennefedur / hvørier ad kallast Einglar Fridarens / Esa. 33. Og þacka Gude þar fyrer af Hiarta / ad þeir hafa gietad leidt nockrar Saaler til Himnarijkis og þeirra Erfvide hefur ecke verid forgiefens i Christo / 1. Cor. 15. Nu þeirre H. Guddoomsins Þrenningu / seigium vier Lof / Vegsemd og Þru / nu hiedann i fra og ad Eilijfu / Amen / Amen.

# A Sancti Johañis Baptistæ Dag.

## Evangelium/ Luc. 1. Cap.

Og þa ed sa Tijme var komenn/ þad Elizabeth skillde fæda/ og hun fædde sin Son. Og er Nagrañar heñar og Frændur heirdu þad/ ad DRottenn hafde margfalld sad Myskun sijna vid hana/ samglöddust þeir heñe/ Og þad skiede/ ad þeir komu a hinum attunda Deige/ ad Vmskiera Sveinin/ z nefndu hañ sijns Fodurs Nafne Zacharias/ enn Mooder hañs svarade og sagde. Aungvañeiginn/ helldur skal hañ Johañes heita. Og þeir sögdu til heñar/ þar er þo einginn i þiñe Ætt/ sem ad heiter þessu Nafne. Eñ þeir bendtu Fodur hañs/ hvad hann villde ad hñ hiete. Eñ hñ beiddest Kneþaspiallds/ skrifade og sagde/ Johañes er hñs Nafn. Og þr Vndrudust aller. Eñ jafnsnart laukst hañs Muñur upp/ og Tunga hañs talade/ lofande Gud. Og Otte kom yfer alla þeirra Nagrañia/ og um allar Fiallbygder j Judæa vijdfrægdust öll þesse Ord. Og aller þeir ed þad heirdu/ settu þad sier j Hiarta/ og sögdu. Hvör grunar þig ad þesse Sveinn verde? þviad Hönd Dottens vor mz hönum. Og Zacharias Fader hñs fillteft af heilögu Anda/ spade z sagde. Blessadur sie DRottenn Gud Israels/ þviad hñ vitiade/z giörde Frelsan sijnu Foolke og hñ uppreiste oss eitt Hialpar-Horn j Hwse Davids hions sijns. So sm hñ hefur talad fyrer Muñ siña heilagra Spamaña/ þeirra sem nu eru af Heimenum. Hañ frelsade oss fra Ovinu vorū/z af Hende allara þra oss hötudu. Hañ giörde Myskunsemd vid Fedur vora/ z minntest a siñ heilaga Sattmaala. Og a þad Sære/ er hñ soor Fodur vorū Abraham/ ad hñ giæfe oss þad. Ad vier leist er af Hende Ovina vorra/ þioonudū hönū an Otta / i Heilagleika z Riettlæte þ hönū sialfū/ alla vora Lijfdaga. Og þu Sveinn mūt kallast Spamadr hins Hædsta/ þviad þu munt þ reña Auglite



DRott-

DRottens/ ad tilbwa hans Vegu. Og giefa hans Foolke Skilning Sæluhialparennar/ til Fyrergiefningar Synda þeirra. Fyrer Myskunar Jdur Guds vors/ j hvørium hañ vitiade vor/ uppruñenn af Hædu/ ad lysa þeim s̃ j Mirkrum og Daudans Skugga sitia/ til ad greida Fætur vorar fram̃ a Veg Fridarens.

## Exordium.

HVegar Gud Drotteñ hefur viliad giera ꝛ fram̃kvæma nockud vissgtugt/ stoort ꝛ Miñisstædt Furduverk/ hier vor a m̃dal/ a Jørduñe/ þa hefur hñ Blessadur optast nær uppvaked og utvaled sier einhvøriar Ypparlegar Persoonur/ s̃m hñ hefur sialfur prydt/ framar ødrū/ mz sierlegū Gafū og Andagypt/ ad fram̃fylgia þvi sama Verke. Til Dæmis ad taka/ þegar DRotteñ villde frelsa Jsraels Foolk/ fra þm̃ Egyptska Þrældoome/ þa utvalde hann þar til sinn Elskulega Þienara Moisen/ og gaf hønum miklar og hafar Gafur/ so hañ gat giørt med þm̃ Staf/ sem hañ hafde i siñe Hende/ mørg Jarteikn ꝛ Furduverk/ fyrer Pharaone Konge/ þangad til hñ um̃ sijder fieck Foolked laust/ so sem þar um̃ ma lesa/ j Exodi Book. 7. Cap. Epter Moysis Afgang/ þegar Drottiñ villde iñleida Jsraels Folked/ i þad Fiſerheitna Canaans Land/ þa utvalde hñ þar til Josuam/ hvørn hañ prydde med miklum Gafum. Þesse same Hershøfdinge/ ødladest þad/ ad meiga ganga med øllū Jsraels Lyd/ þurrum Footum ifer um̃ Aana Jordan/ Jos. 3. J sama maata fieck hañ þad af Drottne/ firer audmiuka Bænagiørd/ ad Sooleñ stood kyrr a Festingar-Himnenum þvi þegar hñ mællte so/ ꝛ sagde til Soolareñar/ Sool/ stattu kyrr i Gibeon/ og Tungled J Dalnum Aialon/ sia / þa vard þad ad Orde og sañu/ ad bæde Sool og Tungl/ optrudu sijnū Edlelegnm Gang/ og stoodu kirr allt þangad til Foolked fieck hefnt sijn a sijnū Ovinum. Hvad hid sama er fyrˢ eina Furdu uppteiknad j heilagre Ritningu/ ad þar hafe eingeñ Dagur vered þssū lykur/ hvørke adur nie sijdañ/ epter: þvi sem þar stendur/ Jos. B. 10. Þegar Gud villde frelsa sitt Folk/ af Philisteaña Hende/ utvalde hñ þar til Samson/ hvørs Fæding og

-ing og Gietnadur var bodadur af einū Eingle. Þessum sÿnū Þienara lagde hn̄ þvÿlijkt Afl z Orku til/ad hn̄ sundur sleit millum sinna Handa/eitt Leon/motlÿka og þa Meñ sundur slijta eitt Kid/hn̄ sloo z so i Hel m̄d einū Asna-Kialka þusūd Meñ/ og ødladest þad fyrer sÿna Alvarlega Bæn/ad þa hn̄ þyrste eitt sin̄ mykelega/so hn̄ sa ei añ ad fyrer eñ hañ mūde af þm̄ Þorsta ørkaf deÿa/þa klauf Gud eitn Jaxl i Asna-Kialkanū/so þar spratt ut af Vatn so hn̄ drack/og hn̄s Ande kom til hn̄s aptur/og vard Endurnærdur/ so sm̄ þar um̄ stendur skrifad/Doomara Book. 13. 14. z 15. Cap.

Nu so sm̄ þ/ ad sa Almattuge Gud/uppvakte j þvi gamla Testamentenu/hvilijka Ypparlega Meñ/sm̄ skylldu framfylgia og a lopt hallda sÿnū Vilia/og Dasemdarverkū. Eins skulū vier vita/ad hn̄ hefur z so giort a Nya Testamentesins Tijmū. Þegar DRottenn Gud villde fullkomna z framkvæma þ mykla Verk Mañkynsins Endurlausnar/ z lata sin̄ Son fædast hingad j þeñañ Heim/ þa utvalde hann Johañem Skijrara til ad vera Fyrer-Reñara þessa sÿns elskulega Sonar/og tilreida hønum Veigeñ. Þessum sÿnū Þienara til meste Stadfestu Merkis/ uppa sÿna Embættis Kallun/ þa liet hn̄ undañ fara nockur eptertakanleg og merkeleg Furduverk/sem var. Fyrst ad hañ liet Johañem fædast af forgømlum Foreldrū og þar a ofañ af Ofrioodsamre Moodur / sem var Elizabeth. Þar næst var hans Fæding af einū Guds Eingle bodud og kuñgiørd. J Þridia lage/þa hn̄s Mooder Elisabeth/ sm̄ var um̄ attrædis Alldur/heirde Heilsan Mariæ/þa seiger Gudspiallamadurenn ad Barned hafe sprotted upp i heñar Kvide. J Fiorda mata stendur þar/ ad Zacharias Fader Johañs /hafe orded Mallaus/ og ecke kuñad ad tala/ fra þvi ad Eingellenn bodade hønum Gietnad og Fæding hañs Sonar/ og til þss hañ fæddest. Allt þetta sÿner oss og fyrer Siooner setur þ/ ad Gud DRottenn hefur ætlad i fyrstu Upphafe/sÿnt nockur Audkieñing Teikn/ a sÿnū Þienurū/ sem hañ hefur fram yfer adra utvaled/ til ad þioona sier og sÿnū Christelegum Søfnude. Og fyrer utañ leingre Jñgang/viliū vier i JEsu Nafne/vÿkia til Gudspialls Textans

 og taka

og taka oss fyrer Hendur hañ ad skoda ꝛ Hugleida/ j þim̄ smaa Punct um. 1. Sa fyrste skal vera/ a hvorium Tijma Johañes hafe þæddur vered. 2. Af hvorium Foreldrum. 3. Þri die skal hliooda um̄ Fognud þañ/ sem Naaungar og Nagrannar høfdu yfer þessare Fædingu Johañis. 4. Vm̄ hañs Vm̄skurn/ ꝛ Agreining þañ/ sem vard um̄ hañs Nafn og Heite. 5. J Þeim fimta og sijdasta/ vilium vier einfalldlega med fæstum Ordum/ yfervega þñ fagra Lofsaung Zachariæ.

GVD Himneskur Fader giefe ad þetta mætte verda hønum til Dyrdar/ Eñ oss øllum til Gagns og Sælar Velferdar /
J JEsu Nafne/ AMEN.

## Vm þad Fyrsta.

GVD miked sem vidvijkur Tijmanum a hvorium Johañes var fæddur/ þa skulū vier vita/ ad þ var a þrettugasta ꝛ Fyrsta Are Rijkis-stiornar Herodis Kongs j Judæa/ Þa lided var fra Veralldar-eñar Skøpun/ Þriu Þusund/ Nju Hundrud/ Sextiju ꝛ eitt Ar/ epter þvi sm̄ Kyrkiu Historiu Skrifarar̄ner utvijsa. Nu var Herodes eirn mykell Tyrañe/ sm̄ med Offrijke plagade og underþryckte Gydinga Foolk/ samt sem ædur villde Gud lata þeñañ siñ Þienara Johañem/ a hñs Døgum og under hñs Stioornar Vellde fædast.

Hier af høfum vier oss þ til Lærdooms ad taka. Fyrst/ ad þo Herodes Kongur være eirn grim̄ur Tijrañe/ sm̄ mz Hardidge høndlade vid sijna Vndergiefna/ þa samt hiellt þo DRotteñ vid Magt/ siñe Christne/ og liet bæde a hañs Døgū Johañem Skijrara/ sm̄ og skomu þar epter/ siñ Eingieteñ Hiartans Son JEsum Christū hingad j þeñ añ Heim Fædast/ oss Møñunū til Sælargagns og Velferdar.

Þañiñ hefur nu Gud DRotteñ alla Daga og Tijma hallded sinne Christne vid Magt/ og sendt heñe midt j Offoknunum/ gooda ꝛ trwlinda Kiennefedur/ Og Ordsins Predikara/ hvar firer hønū sie Eiliſt Lof og Þackargiørd. Herodes Kongur hafde æsett sier ad Afma og Eydeleggia/ alla Davids Ætt og Afspreinge/ af hvorin

Endurlausnaren̄ Heimsins atte ad koma/epter Hollden̄u. Saint liet Drotten̄ honū ecke þvilykan̄ Dieþullegan̄ Asetning takest/ þar þyrer seiger Herran̄ vor JEsus Christus svo/ hia Luc. 12. Hrædst eige þu litla Hiørd/ þvi þad þocknast ydar Fodur/ ad gieþa ydur Ryked. Þetta skal vera oss til Huggunar j øllū Opsoknū/ ad Gud er vor Sti rkur/ Ja/ eirn Hialpare j þm̄ mykllu Anaudū/ sm̄ oss hafa hitt/ seiger hin̄ heilage David/ j Psalmenū 46.

Þar næst lærū vier þ hier/ hvørsu þ/ ad Gud er trwr og Halldenn ordur j sijnū Loþunū. Drotten̄ haþde þyrer nockrū Hundrud Arum/ læted sijna Spæmen̄ þyrer seigia Fæding Johan̄is/ so sem ad voru þr/ David/ Esaias og Malachias/ þvi so seiger hin̄ heilage David/ Psalm. 132. Jeg heþe tilreitt mijnū smurda eitt Lioos. Esaias kiemst so ad Orde/ og seiger/ 40. Cap. sin̄ar Spadoms Bok. Þar er eins Predikara Raust j Eidemørkun̄e/ tilreide þier Vegu Drottens/ giøred j Obygden̄e sliettan̄ Veg vorū Gude. Malachias tekur so til Orda og seiger/ 3. Cap. Sioed/ eg vil senda min̄ Eingel/ sm̄ tilreida skal Veigen̄ þyrer mier. Og j næst epterþylgiande Cap. Seiger same Spamadur. Sioa/ eg vil senda ydur Eliam Propheta ad ur en̄ sa mykle og Ognarlege Dagur Drottens kiemur/ hn̄ skal snwa Fedran̄a Hiørtum til Barnan̄a/ og Barnan̄a Hiørtum til sin̄a Fedra.

Ad aller þsser Spadomar haþe riettelega att Heima/ ꝛ hlydt uppa Johan̄em Skijrara/ þad sladþester og bevijsar Herran̄ Christur sialþur nooglega/ hia Matth. 11. ꝛ Marc. 1. Cap.

# Vm þad An̄ad.

HIMar Punckturin̄ wt af þssū vorū Gudspialls Texta/ hlioodar þar um̄/ hvørier vered haþe Forelldrar hins heilaga Johan̄is. En̄ þr verda hier wtþryckelega Naþnkiender j þn̄ mata/ ad hanns Fader haþe heited Zacharias/ En̄ han̄s Mooder Elizabeth. Og er so ad rada/ aþ Kyrkiun̄ar Historiu Bookū / ad þau haþe verd komen̄ aþ Kyne LEVJ og aþ Ættlegg þss Ypparsta Kien̄emans Aaronis. So heþur þa Zacharias/ ecke alleinasta vered komen̄ aþ Kien̄eman̄legu og Prestlegu

Sleckte/helldur var hañ og eirneñ sialþur eirn Preſtur ꝛ Kieñemadur/ og er hinū heilaga Johañi þ ecke alllytel Æra ꝛ Virding / ad hñ er Getẽñ og Fæddur/ af so Ypparlegū og mykels hꝛttar Forelldrum.

Þar næſt verdur og so gieted j Gudſpiallegre Hiſtoriu/ ad þesser Forelldrar Johñis haþe vered Eigeñgyptar Perſonur/ ꝛ liþad j Hiwſkap edur Hioonabande til ſamans. J þridia mata verdur þeim þ til Loþs lagt/ad þau hafe vered bæde froom/ og geinged epter Guds Bodordū ꝛ ſetningū Oſtraffanlega. Eñ hvørneñ ſem þſſu var vared/þa ſkulū vier þo ſamt vita/ ad þau liþdu ecke til ſamans þyrer utañ Kroſſ og Mootgang/þvi uñ Elizabeth er þ ſkriþad/ad hun haþe vered Obyria.

Aþ þſſu ollu hoþū vier oz þ til Lærdoms ꝛ Vppþrædingar ad taka. Fyrſt/verdur ollū Eigeñgyptū Perſonū og Ecta Hioonum/ hier eirn Merkelegur Hwſſ-Speigell fyrer Siooner ſettur/hvørneñ þau eige ad haga ſier ꝛ hegda j þre heilogu Hiwſkaparſtiett/epter Dæme þſſ alldrada Kieñemañs Zachariæ ꝛ hñs Kviñu Elizabethar. Og eru þ ſier deilis þiorar Ypparlegar Dygder/ ſem vier hoſū af þra Dæme/ ad atſhuga ꝛ gaumgiæþelega ad Jhuga. Su þyrſta er ſoñ ꝛ alvarleg Gudræcne/þvi ſo vottar Gudſpiallamaduren/ad þau haþe bæde vered þroom þyrer Drottne/ þ er /þau haþe Elſkad og Aſtundad Guds Ord/og geinged Ydugleg a til Kyrkiu/til ad giøra ſyñar Gudræfelegar Bæner. Nu/ þſſa Edla Dygdena/ættu oll Chriſteleg Hioon Koſtgiæþelega ad aſtunda/þvi hun er ſu/uñ hværia Poſtuleñ Pall talat ſo og ſeiger/ 1. Tim. 4. Gudræcneñ er til allra hluta Nytſamleg/ haſande Fyrerheit þſſa Lyþs ꝛ añars. Og j ødrum ſtad ſeiger ſame Poſtule ſo/ad þ ſie eirn mikell Aviñingur/nær eirn er Gudhræddur/ ꝛ lætur ſier anægia/þviad (ſeiger hañ) vier hoþū eckert jñflutt j þeñañ Heim/af þvi er þad openbert/ad vier munū eckert helldur j burt haþa/ 1. Tim. 6. Añad þ ſ vier hoþū hier ad læra/aþ Dæme Zachariæ ꝛ Elizabethar/þa er eitt meinlauſt ꝛ gott Lyþerne ꝛ Framþerde/ þvi ſo vottar Gudſpiallamaduren/ad þau haþe geinged epter Guds Bodordū ꝛ Setningū Oſtraffanlega/ þ er ad ſkilia/ad þau haþe ecke ad eins

elſkad

elskad hvørt annad jnnbyrdes sijn a mille / helldur hafe þau og eirnenn lagt alla Astwd ⁊ Astundan þar a / ad lifa vel / og hallda Frid ⁊ Eindrægne vid alla Menn / og giefa þar med ødrum gott Epterdæme af sier.

O hvad vel ⁊ prijdelega skartar þesse Edla Dygdenn a øllum Ecktahio-num? Sä visse Madur Syrach / þikest ecke noglega kunna ad fullprijsa hana / þar þ tekur hann so til Orda / j 25. Cap. sinnar Bookar / so seigiande / Þad eru þriar Luter fagrer / sem bæde Gude ⁊ Mønnum vel þocknast / sem eru þesser / þegar Brædurner eru samþycker / og Naungarner Elskast / ⁊ Madur og Kvinna forlijkast vel. Þar þvert a moote / hvar hellst sem j Hwsstiornenne er ecke annad ad finna enn Agg og Deilur / Natur ⁊ Osamlinde / og allskonar Sundrægne / þa kann þar einginn Blessan ad vera / so sem Dagleg Dæme noglega Audsijna.

Þridia Dygdenn hvøria øll Christeleg Ecktahioon eiga ad astunda / þad er Alvarleg Idne ⁊ Astundan sijns Embættes. Sium til / hvørsu þesse goodu Hioon / Zacharia ⁊ Elizabeth / taka vel ⁊ trwlega Vara a þvi sem þaug eiga ad giora / þviad þegar Zacharia var a vissum Tijma ad fremia sitt Kiennemannlega Embætte / og ad veifa Reykelse j Musterenu fyrer DRottne / þa forsomade hann þ alldrei / helldur took ydugliga Vara a Guds Þioonustugiørd. Elizabeth j sama mata / liet sier so þ annt good Hwssmooder umhugad vera um sijna Hwsstioorn. Hvar þ nu so geingur vel og skickanlega til / j hvøriu hellst Embætte sem þ vera kann / þa skulum vier vita / ad þar er vissulega Guds Blessan nalæg / epter þvi sem Salomon seiger / j Ordskvida Bok. 24. Cap. Ad af skickanlegre Heimilis Forstødu / uppfyllest Geymslu Hwsenn / med allskins kostulegann ⁊ dægelegann Rijkdoom. Þar þvert a möte / hvar hellst sem Jlla ⁊ Oskickanlega tilgeingur / ⁊ allt fer Aflaga i Hwss-stiornenne / þar er ecke von a ødru enn Ogiæfu / og Allskyns Olucku.

Su Fiorda Edla Dygdenn þ øllum Christelegum Hioonum / a ad vera med gleken / er sannarleg Þolinmæde. Þvi er so vared ⁊ hattad / ad Gud Drottenn leggur opftast nær Hionabandsstiettenne / einhvørn kross ⁊ motgang uppa / þvi stundum sender hann þeim þ þar inne lifa / soott ⁊ Krankdæme / sumum lætur hann tilfalla Fatækt ⁊ Armood / sumum margvijslegar Offsokner /

 sumum

þamū vilia til Ohlÿdeñ og Oſtyrelaat Børn / ſumū vonder ꝛ hreckvÿſſet Naabwar / ſumū Svikult Viñufolk / ꝛ margt añad þſſu lÿkt. Ecke voru helldꝛ þſſe goodu Hioon / Zacharia ꝛ Elizabeth Angurlaus / þvi hier ſtendur i Gudſpialls Hiſtoriuñe / Ad hun hafe vered Obyria / hvad adur fordū var hallded fyrer ſtoora Læging / hia Gydinga Foolke. Sanit ſem adur baaru þau þeñañ ſiñ Kroſſ / vel og Poliñmoodlega / ꝛ mogludu ecke a moote Vilia Guds / helldur lietu ſier þ vel linda / ſem DRottẽñ villde laata þm ad Hendū koma. Epter þvilÿku Poleñmædeñar Dæme / ættu øll Chriſteleg Hioon ad breita / þvi þad er eirn merkelegur Hlutur / ad vera Poliñmoodur / ꝛ vona uppa Hialpena Drottens / ſeiger Jeremias / j ſÿnum Harmagraat / 3. Capitula.

# Vm þad Þridia.

ÞRidie Puncturiñ ſem eg lofade a ad miñaſt / er um Føgnud þañ og Glede / ſm Naagrañarner þeingu aþ þeſſare Johañis Fædingu. Hier um auÿſar ſo Texteñ / Ad þegar Grañar ꝛ Naafrændur Elizabeth ar haþe heirt þad / ad DRrotteñ heþde Miſkun ſÿna vid hana marg þalldad / þa haþe þeir ecke gietad aþ ſier ſtaded / ad þeir kiæme ecke og ſamgleddust med heñe / og þøckudu Gude þirer ſÿna Omælanlega Millde / ſem hañ haþde heñe i margañ maata veitt og auðſynt. Sem var i þirſtu / ad hañ hafde burttèked heñar Brixle / og giørt hana nu i ſÿnum haa Alldurdome / ad eirne gladværre Barna Modur / epter þvi ſm David ad Orde kiemſt / Pſalm. 113. Þar næſt ſamglediaſt þeir heñe / þirer þad / ad Gud haþde laated hana komaſt vel og ſkadlauſt þra ſÿnu Fooſtre. Eñ einkañlega og ſierdeilis glediaſt og ſamfagna Naagrañarner iþer þvi / ad Johañi veittiſt ſu Æra / ad meiga vera og heita Firer-Reñare Meſsiæ og Heimſins Frelſara / vors Drottens Jeſu Chriſti / epter þvi ſem adur haþde vered um hann ſpaad.

Hier at aþ høþum vier oſſ þad til Lærdooms ad taka. Firſt / lærum vier þad hier / hvørſu þad haþe Olÿka tilgeinged þirer Chriſtnum Møñum og Heidnum / þordum Tÿd / þegar hverium þeirra þirer ſig / heþur orded auded Barna. Þvi um Heidna Meñ er þad ſkrifad / ad þeir hafe

þeir hafe græted og bored sig illa/þa þeirra Børn fæddust/ eñ gladst og fagnad aptur/ nær þeir mistu þau/ og Daudeñ kipte þeim i burtu. Eñ þad hafa ecke heilager Guds Meñ giørt/helldur/nær þeir hafa ein hvørn siñ Astvin fra sier mist/ þa hafa þeir græted og bored sig illa/ so sem allvijda ma sia af heilagre Ritningu/og þar þvert a mote ord ed miøg glader þar vid/þa Gud hefur giefed þeim Børn. Þar firer eru þeir Forelldrar øngvañeigeñ acktande firer Christna Meñ/ helldur firer Heidingia og Vantrwada/sem lata sier þikia þad midur/þa Gud blessar þa med fiølda Barna/ meinande ad Drottiñ sie ecke megnugur ad veita þeim Forsorgun/og añad sem þeim er Naudsynlegt til þessa Lijfs Vpphelldis. Helldur skilldu øll Christeleg Hioon/þacka Gude fyrer Fegnude/nær hañ blessar þau med Lijfs Averte/eins og giørdu Zacharias ꝛ Elizabeth/asamt þeirra Viner ꝛ Nagrañar.

Þar næst svo sem þad/ad Viner ꝛ Nagrañar Elizabethar glöddust iser heñar Lucku og Velgeingne/ so biriar oss og eirneñ ad fagna med Fagnendum/epter Postulans Pals Amiñingu/ i Pistlenum til Rom. 12. Þvi þad er christelegt og Gude þægelegt/ad þa Herrañ blessar eirn ꝛ sierhvørn/i hvørn hellst mata sem þad vera kañ/ad vier uñum þeim þess/ecke ad eins af Hiarta/ helldur og þøckum Gude med þeim/ firer slijka sijna Nad.

## Vm þad Fiorda.

NV epterfilger med einu Orde/ad miñast a þañ Fiorda Punctiñ/s hlioodar um Vmskurn hins heilaga Johañis/ꝛ um Agreining þñ sem vard vt af hañs Nafne/sem hønum atte ad giefast. Hier um stend ur so i Textanum. Og þeir komu a hinum attunda Deige. Þad er/sem Gudspiallamaduriñ villde so seigia/þeir Viner og Nagrannar Elizabethar/sem adur høfdu samfagnad heñe/ komu aptur/ eñ ecke til þess/ad eta og dreca/ ꝛ hallda Giestabod/so sem marget Forelldrar giera/þa þeirra Børn eiga ad skijrast/helldur koma þeir þess Erindis /Ad V M Skiera S Veineñ/epter þvi sem Drotteñ hafde adur boded og skipad/ ad øll Sveinbørn skilldu a þeim attunda Deige umskierast/

Gen. 17. Þessare Skickun lifanda Guds / er Johañes hlydugur / þui hañ var af sijnum Forelldrum i Syndunum gieteñ og fæddur / svo sem añar Børn / z þurfte þar þ þss vid / ad hñ irde iñtekiñ i Sattmaala Guds.

Þar næst gietur Gudspiallamadureñ hier / ad nockurskonar Agreiningur hafe orded um Nafn þssa unga Sveins / þviad Nagrañarner hafe viliad nefna hañ sijns Fødurs Nafne Zacharias / Eñ Mooder hañs hafe staded þar a moote / og sagt / aungvañeigeñ / helldur skal hañ Johañes heita. Hvad hun i aungvañ maata giørde under þa Grein / ad hun villde foracta siñ Ecktamañ / helldur uppa þ / ad hun fullnægde Eingielsins Ordũ / og DRottens befalningu. Eñ Ordsaker hvar þ ad Nagrañarner villdu ecke samþycker verda / ad Barned skyllde heita Johañes / voru sierdeilis þssar þriaar. Fyrst ad Nafn þtta var ecke i þañ Tijma altijdkad hia Gydingũ. Þar næst þotte þeim þad Tilheiruleggast ad Sonurenn skyllde bera sijns Fødurs Nafn / og taka / so siñ ad Erfdum / bæde vid Nafne hanns og Embætte.

Þa þridiu Ordsøkena leggia þeir sialfer til og seigia / AD Þar Sie eingiñ i heñar Ætt / sem heite þessu Nafne. Þad er / sem þeir vill hn so seigia / hefur þad ecke verid gømul og lofleg Sidvenia hia oss / ad giefa Børnunum Nafn / añadhvørt epter sijnum Forelldrum / edur ad minsta koste epter sijnum Skylldmeñum ? Hvad skulu þa þessar Nyungar / ad laata Barned heita þessu Okienda Nafne / Johannes ? Eñ sem þeir formerkia Alvøru Elizabethar / ad hun vill i øngvann maata añad / enn Sveirninn skule Johañes heita / þvert a mote þeirra Vilia og Radleggingu / þa laata þeir sier þo ecke þar med nægia / helldur seiger Gudspiallamadurenn / Ad ÞEir NAfe BEndt FODur Hanns hvad hann villde ad hann hiete. Enn hann (epter Maalleisis vanda sijnũ) Beiddest Knefa Spiallds / skrifade og sagde / Johañes er hñs Heite / og þeir undrudust aller.

Hier af lærum vier þad. Fyrst ad lijka sem þad / ad Gydingar voru Forplicktader til / ad laata Umskiera sijn Børn / strax a attunda Deige / epter sijna Fæding / uppa þad / þau mætty sem firstkomast og inntakast

i Sakramala Guds og verda Saluholpenn. Eins erum vier Christner Menn/skylldugar ad lata vor Børn koma þ allra fyrsta (epter synu Fæding) til þrar heilogu Vatns Skijrnar/þvi Skijrnenn er komenn i staden Umskurnarennar. Leiþed/seiger Herran Christur/hia Marc. 10. Børnunu til myn ad koma/og bañed þm þ eige. Þad er sm hañ vilde so seigia/Þier Foreldrar giæted ad ydr/ad þier ecke fyrer Glaum og Glede/eda nockra adra Heimsins Vellist & Epterlæte/undandraged/ad koma med ydar Børn til Skijrnar-Sacramentis/þviad/Skijrneñ er su Endurfædingarlaug fyrer hvoria Børnenn verda Innteken i Guds Ryke. Þar fyrer/þss leingr sm Foreldrarner lata Børneñ vera heima hia sier Oskijrd/þss leingur stoþna þr þm til ad vera under Ryke og Vallde Diøfulsins/og fyrer utann Guds Naad/og þann Sakramala DRottens/sm hann heþur i Skijrnenne vid oss bunded/sm er þsse/Ad hver sm trwer og verdur skijrdur/skal Saluholpenn verda. Þvi er þ hinn meste Salar Haske/fyrer Børneñ/þa þau eru leinge fyrer utann þ heilaga Sacramentum Skijrnarennar.

Þar næst verda aller Christner Foreldrar hier aminter/ad lata gieþa sijnu Børnu þau Nøþn sm vel soomer & tijdkanleg hafa vered hia Guds Foolke/& Sofnude DRottens adur fordum. Hier i þssu Lande heþur þuþest stoor Vanbrwkun i þvilijku Efne/adr firrmeir/þvi þar haþa vered sumer Foreldrar sm ecke alleinasta haþa lated sijn Børn heita epter Heidnu Kiempu & Fornmeñu/sm vered haþa ad meira Parte Troll/eñ Mañeskiur/sem sia ma af fornu Søgu/helldur haþa þr & so lated gieþa þm Nøþn/epter Villudijru & Bestiu. Eñ hier a mote skulu v'er vita/ad Gud heþur kallad oss i burt þra þm megna & mykva Heideñdoime/og til sijns Dijrdarlega Lioss/so sm Postulenn Petur ad Orde kiemst/1. Pist. 2. Þar kyrer ber oss ad ganga so sm Lioossens Børnu/og leggia øll heideñ Nøþn til sijdu/þvi Gud heþur Andstygd a þm/og vill aþmaa & aþskaþa þau/epter þvi sm þar stendr i Oseæ Spadooms Bookar/2. Capitula.

Framveigis er þ vel athugande/og epterfakanlegt/wt af þessu heilaga Gudspialle/ad þar stendur/ad i þvi Bile/sm Zacharios ætlade ad

 giefa

Cantzeler eñ añañ Noþmeystara/ þa þu tekr vid Kongs Tign hier j Ne
ime/ Eñ þ er ecke su rietta Sælañ/ helldur hitt sm̄ Christur seiger/
Þad er Eilijft Lijf/ ad þr þecke þig sañañ Gud/ z þañ þu wtsender Je
sum Christū/ Joh. 17. Þetta er nu su rietta Sæla/ þtta er þad
sem oss dregur best a Veg og Gøtu Saluhialpareñar. Þetta er þad
Medaled/ þyrer hvørt ad vier faū ad sia Gud/ Auglite til Auglitis
sijdar meir j Eilijfu Lijfe/ z hia honū Æfeñlega ad vera. Þessa Hei-
ms Børn hallda þ þyrer þa stærstu Sælu/ ad lifa j allskonar Vellistin-
gum/ til Matar z Dryckiar/ eins og sa Rijke Svelgiare/ Luc. 16.
Þeir sem Unger eru marger hvørier kieppast þar vid/ ad prijda sig sem
mest þr giefa/ og ad klæda sig hid ytra mz Kostulegū Skrwda/ Løgdū
mz Gulls og Sylfur Snwrū/ so þr kuñe ad hafa Alit hia Foolke/
so marger heimsker/ nær þr sia soddañ Oflata z Páfugla/ hia sier
gáanga/ þa seigia þr/ O sia hvørsu prijdelega þsse er klæddur? Enn
hier þvert a moote/ kieñer Herrañ Christur Læresveinunū sijnum/ añad
læ ngtum Raudsynlegra og þarflegra/ sm̄ villde hñ so seigia/ Non sic
itur ad Astra/ þ er ecke sa riette Vegur til Saluhialpareñar/ þvi hia
þssū og þvilijkū/ a þ riettelega heima sm̄ Christur seiger hia Luc. 6.
Vei ydur sm̄ nu erud Auduger/ þvi þier hafed ydar Huggun j burtu/
Vei ydur sem nu erud sadder/ þvi ydur mun Hungra/ Vei ydur sem
hier hlæed/ þvi þier munud Æpa og Yla.

Framveigis skulum vier vita/ ad þar er sierdeilislega þrefølld Fa-
tækt til. Fyrst Volæde/ þa eirn hefur hvørke ad bijta nie sypa/ so sm̄
vier pløgū ad seigia. Soddañ Mañeskiur sumar hvøriar/ nær þær ver-
da hier yfer Ofolenmoodar/ þa klaga þær Gud þar þyrer/ ad hñ sie ecke
Riettsyn/ helldur giøre sier Raangt til/ z giefe ødrū Rijkare meir eñ sier.
Þær klaga z so siñ Naunga þyrer Nijsku/ þa þeim er ecke strax giefed/
so sm̄ þeim lijkar vid ad taka. Sialfa sig klaga þær z eirniñ/ z seigiast
Vietiñ og Fædd vera a Ogiæfu stund/ Eñ hier til svarar Jesus þm̄/
hia Gudspiallamañenum Mattheo i 20. Cap. seigiande. Ertu þar fyr
er Raangeygdur þo eg sie Goodgiarn/ edur leyfest mier ecke ad giøra af
mijnu þ eg vil? Añarslags Armoodur og Fatækdomur er þ/ þa

eitt og añar giører sig sialfañ Fatækañ/med Ohoofe i Mat & Dryck/ med Onaudsynlegum Giestabodū og Stoorveitslum. Vm̄ soddañ Meñ talar so sa Vijse Salomon Kongur/ i Ordskvida B. 21. Cap. Hvør sm̄ giarnañ lifer i Vellystingum/ hañ mun skorta/ og hvør hañ elskar myked Vijn og Vidsmiør/verdur ei Rijkur. Pridiaslags Fatæk doomur edur Volæde/ er Arlegt og Andlegt Volæde/ um̄ hvert Herrañ so talar/ hia Matth. 19. Hvør hñ forlætur Hws edur Brædur Syster/ Fodur eda Moodur/ Eiginkonu eda Børn/ edur Akra/ fyrer mijns Nafns saker/sa mun hundradfallt i stadiñ taka/ & erfa Eilijft Lijf.

Vm̄ Julianum Trwarnijding er þ skrifad/ Ad hñ hafe allt ad seigia so til þeirra Christnu/ sem elskudu Gud sñ af øllu Hiarta/ ydar Herra & Lausnari hefur lofad ad giefa þeim Voludu & Fatæku Eilijft Lijf. Þar fyrer vil eg taka fra ydur/ allt ydar Gots og Audæfe/ og giøra ydur ad Fatækum Þurfamøñum/so þier meiged þess fyrre komast i Himnarijke/og ødlast Eilijfa Sælu. Nei/ øngvañeigiñ so/ecke var þetta Herrans Christi Meining/ helldur kallar hñ hier þa alla Andlega Volada/sm̄ bera Angur & Trega fyrer sijnar Synder/ og treida sig ecke uppa sijn eigen Goodverk/ helldur alleinasta uppa Guds Nad og Myskunseme. Vm̄ þa & þvilijka talar so Ande Guds/ þ Muñ Spamañsins Es. 66. Cap. Eg ælit þñ hiñ Fatæka/& þñ s hefr sundur knosadañ Anda/ & þñ s hrædest mijn Ord. Soddañ Andlega Volader Meñ voru þeir Zachæus & Tollheimtumaduriñ i Musterenu/ hver ecke þorde ad upplijfta sijnū Augū til Himens/helldur barde sier a Briost/ & sagde. Gud vertu mier Syndugū Lijknsamur. So var & eitniñ Andlega Volad:/S. Petur/Maria Magdalena/& adrer fleyre. Hier um̄ mætte margt fleyra framsetiast/ ef Tijmiñ lide/& þ yrde ecke oflangt.

## Vm þa adra Sæluna.

ENN vier viliū nu framveigis stuttlega skoda/ og yfervega þa adra Sæluna/ um̄ hvøria vor Liufe Lausnare talar hier og seiger.

SÆler eru þeir sem Harma/ þviad þeir munu Huggader verda.

Þessu samhlioodar þ sm̄ Salomon seiger/ j Predikunar B. 7. Cap.

Ad þad sie betra ad ganga j Sorgarhws / helldur en̄ j Dryckiuhws / Jt-
tem / betra er ad Syrgia / en̄ ad Hlæa. Nu verdur þar allt jafnt
einhvør sierleg Ordsøk til ad vera / þa eirn edur an̄ar Grætur / & wt-
heller sijnu̅ Tarū / En̄ vier skulū vita / ad fyrst wtpressar þ Tarenn̄
af Man̄sins Augū / þa eirn verdur fyrer þungū Krosse & Mootgange
Hvørt helldur sem su Byrde liggur hid jn̄ra a Salun̄e / hvad þo er all-
ra þijngst / edr hid ytra a Lijkamanū. Þar næst / þa eirn hefr Sam
aumkan mz sijnū Astvin / edr ødrū sijnū Samchristnū Naunga / þa
honū fellur jlla / hvar um̄ Postulen̄ Pall talar / til Rom. 12. Cap.
Seigiande / Fagned mz Fagnendū / og Grated mz Gratendum.
J. þridia lage / er þ ecke hin min̄sta Ordsøk til Grætsins / þa eirn sin̄
er til Synda sin̄a / og ber Angur og Trega fyrer þær. J fioorda
mata þa Madur hefur eina Hiartans Eyrnd og Epterlangan til þss /
ad meiga frelsast wr þssū Eimdardal sem fyrst / en̄ komast jn̄ i þa Him
nesku Sælu og Dyrd allra wtvaldra / s S. Pall seiger / Philip. 1.
Eg girnest ad skyliast hier vid / og vera hia Christo. Nu / Um̄ alla
þa sm̄ j þvilijkan̄ mata eru Sorgfuller & Angrader seiger Endurlausn
aren̄ vor JEsus Christus hier / Ad þeir Skule Huggader Verda /
Sama sagde han̄ til hins Icktsiuka / Vertu Hughraustur Sonur / þier
eru þijnar Sinder firergiefnar. Matth. 9.

## Um þa þridiu Sæluna.

FRan̄veigis seiger Herran̄ Christur hier i Gudspiallenu / SAEler Eru
Hoogværer / þvi þeir munu Jardrijked erfa. Þetta er nu su þridia
Edal Perlan̄ edur Gimsteirnin̄ / sm̄ skartar vel a øllum Guds Børnum.
Sonur Guds / vor liufe Lausnare Jesus Christus / visse vel / hvernin̄
ad vorre Syndumspilltre Natturu var hattad / sm̄ er / ad hun er jafn-
an̄ hneigd til þess hins Vonda / sm̄ er / til Reide / Naturs og Ofunds-
sykis / Hvad og eirnin̄ hendt hefur Heilaga Guds Men̄ / so sem vier meig
um sia auglioos Dæme a Postulanum Petre / hvet ad kom til Christ
um og spurde hn̄ ad / seigiande / Herra / hvad opt skal eg mijnum Brod
ur / þeim sem vid mig brijtur / fyrergiefa ? Er þ ecke noog siosin̄um ?

Hier a moot

Hier ma mook seiger Herrañ Christur/ Aller Eru NOgværer. Eñ þad er ad vera riettelega Noogvær/ þa Madur brÿtr ma moote Giede sÿru/ ꝛ þordast Reide og Bondsku/ eñ þyrergiefur giarnañ sÿnum Samchrist num Naunga/ hñs Misgierder/ eñ hvorsu Torvellt ꝥ sie/ ad na þe. ssare Edla Dygdeñe/ ꝥ kieñer oss Dagleg Reinsla. Eñ hvad a oss þa ad uppvekia þar til/ ad vier Fuslega þyrergiefū þm̄ ꝍ oss j mote briota? Þar til skal oss uppvekia/ Fyrst og fremst/ Befalning sialfs lifanda Guds/ þvi so stendur þar j Pistlenum til Rom. 12. Cap.
Hefned ydar ecke sialfer/ mÿner Elskanleger/ helldr giefed Rum Reide. Og sialfr Sonr Guds vor Drotteñ Jesus Christus seiger hia Math. 5. Cap. Þegar þu Offrar þÿna Gafu til Altaris/ og þier kiemur ꝥ til Hugar/ ad þiñ Broodur hafe nockud a moote þier/ þa lattu þar þÿna Gafu ꝼ Altarenu/ ꝛ gack adur ad sætta þig vid þiñ Broodur. Item/ Vertu snarlega samþyckur þÿnū Mootstedumañe/ a medañ þu ert eñ nu a Veige med hønum. Og Postuleñ Pall talar so j Pistl. til Eph. 4. Cap. Reidest og Syndged ecke/ lated ecke Soolena ynd ergaanga yfer ydarre Reide.

Þar næst a oss ad uppvekia til Fridar ꝛ Forlÿkunar/ vid vorn Samchristeñ Naunga/ epter Dæme lifanda Guds/ hver ad lætur sÿna Sool skÿna/ so vel yfer þa vondu sem goodu/ og lætur sitt Regn falla nidur/ eins yfer þa Riettlatu sem Ranglatu. Item seiger Endurlausnareñ vor JEsus Christur so sialfur/ Læred af mier/ þviad eg er Noogvær og af Hiarta Lÿtellatur/ Matth. 11.
J þridia mata a oss ad upphvekia til þessarar Edla Dygdar/ Dæme þe irra Heiløgu Guds Mañа/ Abraham/ Jacobs/ Josephs/ Moyses/ Davids ꝛ añara fleire. J fiorda mata a oß ad knya til Fridar ꝛ Samþyckis vid Naungañ/ Eitt Gott ꝛ Ypparlegt Nafn og Rycкte/ Hier fyrer seiger so hiñ Heidne Cicero/ Meñ leggia sier sñ stoort Lof þar med/ þa þr umlÿda þoleñmodlega ꝥ þm̄ er Ranglega tilgiørt/ myklu framar eñ þo þr vilie hefna sÿn sialfer a sÿnū Ovinū. J fimta og sÿdasta mata/ a oss ad hræra til þessarar Dygdar/ Sa mikle Skade sem aller Reidegiarner og Hefndargyruger/ hafa sier ad vænta/ ef þeir



stilla ecke

skilla ecke skÿna Giedsmune/ þui so seiger Postulenn Jacob/ 1. Cap. Mannsins Reide giører þ eige/ hvad byrer Gude Riettferdugt er. Nær vier skickum oss nu þanninn/ epter Guds Orde og Befalningu/ og erum Hogværer/ Hvørs goods munu vier þa eiga oss aptr a mot ad vænta/ Hier uppa svarar so sialfur Endurlausnarenn vor j þessu Gudspialle/ seig iande/ad þr sem so giøra z breyta/ skule Jardrijked Erfa. Þetta Guds Fyrerheyt edur Lofun/ a og ma mz riettu tvøfalldlega ad skiliast. Margur meinar so og þeinker/ kannske/ med sialfum sier/ ad þr mune ve rda Stooraudnger og Rijker þar af/þa þr liggia i Fiandskap/Klegu-malum/ Agge og Deilum/vid sinn Jafnchristenn. Nei/ þui er aung-vanveigenn so vared og hattad/ þui Prætur og Osamlinde leida eckert gott epter sig. Dæme hier uppa høfum vier a Forfødurnum Jacob. Hanns Magur Laban/ prættade opt og ofialdann vid hann/ enn Jacob liet sem hann heirde þ ecke/ þess vegna blessade Gud hann j stadenn Rijkuglega.

J annann mata kallast þ/ Ad Erfa Jardrijked. Fyrst/ad hafa goda Heylsu/ og ødlast langa Lijfdaga. Þar næst ad hafa sitt Daglegt Braud og Upphellde/ til ad forsorga sig og sÿna med/ þu so seiger David/ j Psalm. 112. Ad Sæde hra sem Drottenn Ottast/ mune verda Volldugt a Jørdu/ og ad Ætt hra goodu mune Blessud verda/ Rijkdoomur og Nægter munu vera j hra Huse/ og þeirra Riettvijse bl-ijfur Æfenlega. J þridia mata kallast þ ad Erfa Jardrijked/ þa Madur fær ad lifa j Fride og Rooleghheitum. Tyrannar og Bloodgyr-uger Hundar/ Item agiarner Kroppar og Reidegiarner/ þesser og þvilijker verda opt og tijdum Vellrijker/ og miklu Audugre enn þr go-du og Froomu/ sem ottast og elska sinn Gud/ af ollu Hiarta/ Enn hra Lijfdagar verda næsta fæer og stutter/ so sem hinn Heilage David seiger Ad þr fæe ecke halfnad sÿna Lijfdaga. J fioorda mata/ a þtta Guds Fyrerheyt umm Arfteku Jardrijkis/ad skiliast þ Erfd Himnarijkis og allra Himneskra Audæfa/ epter þui sem David ad Orde kiemst/ j Ps alm. 116. Enn eg trwe þ (seiger hann) Ad eg mune sia Goodsemd Dro-ttens/ a Jørdu Lifande Manna/ Þad er j Eilijfu Lijfe/ Og Postulenn Pall seiger/ Ad vor Umgeingne sie a Himnum/ Hvadann vier vænt

umm vors

um vors Endurlausnara JESu CHRisti/ Philippens. 1. Capitula.

# Um þa fioordu Sæluna.

SU fioorda Sælañ/ hverrar gieted verdur j þssu N. Evangelio/ er þsse ad herrañ seiger/ Ad SAller sieu þeir sem Hwngra og Þyrsta epter Riettlætenu/ þvi þeir skulu sadder verda.

Þesse Ord hefur Sonur Guds/ vor Linse Endurlausnare JEsus Christus/ Riett eigeñlega teked wt af Spaamañenum Esaia/ þar hñ so ad Orde kiemst/ seigande j siñar Bookar 65. Cap. So seiger DRotteñ DRotteñ/ Siaa þu mjñer Þionar skulu eta z drecka/ eñ þier skulud Hwngra og þyrsta. Þeir sem setter eru til þss/ ad Uppfrada Ung doomeñ j Skoolū/ j Booklegū Lystū/ kieña so/ ad Riettlæted sie þreñslags/ edur mz þreñu moote. Pad fyrsta Riettlæted af þssū þremur/ verdur kallad Justitia universalis/ þ er/ Almeñelegt Riettlæte/ hvørt ed jñebindr allar adrar Dygder j sier/ epter þvi sem þr gemlu hafa sagt/ Justitia in sese Virtutes continet omnes. Af þvilyku Riettlæte hroosar Post. Pall sier 1. Cor. 4. Þar hñ seiger/ Jeg er mier einskis samvitande. Og uñ þañ gamla Simeonem stendur skrifad/ ad hñ hafe vered Homo Justus/ þ er Riettlætur/ Uppriktugur/ og Gudhræddur Madur/ sm ecke være sier nockurs Skalkaparts medvitande. Eñ hvar fiñast nu þvilyker Meñ? Sañarlega þr eru miog fæer/ a þssū Dogū/ hvar yfer Micheas Spamadur so klagar/ seigande/ Cap. 7. Þeir froomu eru aller burt wr Landenu/ og þr Riettferdugu fiñast ecke meir a medal Foolksins. Pad añad Riettlæted verdur kallad Justitia Particularis/edur þ Riettlæte sm vidkemur nockrū/ eñ þo ecke ollum/ so sm þa eirn Madur hefur goodañ Asetning aung vū Oriett ad til giora. Um soddañ Riettlæte talar Jacob Fortfader/ vid Maag siñ Laban/ þar hñ seiger/ Myn Riettvysse skal mier Vitne bera/ j Dag edr a Morgun/ þegar þar ad kiemur/ ad eg skal taka mitt Verdkaup af þier. Ut af soddañ Riettlæte hrosar David sier/ j Psalm. 7. seigande/ Dæm þu mig DRotteñ epter miñe Riettvysse.

Þridia slags Riettlæte/ verdur kallad Justitia Evangelica/ edur hød

Evangeliska Riettlæte/ þ er/ þegar Madur verdur Riettlaati og Sæll hjolpeñ/ alleinasta fyrer Forþienustu/ Pijnu/ Dauda og Bloods utshellingu JEsu Christi Guds Sonar. Um þvlijkt Riettlæte talar Post. Pall so/ j Pistlenum til Rom. 5. Cap. seigande. Nu/ þar vier erum Riettlaater ordner fyrer Trwna/ þa hefum vier Frid hia Gude/ fyrer DROTTenn vorn JESum CHRistum.

# Vm þa fimtu Sæluna.

SV fimta Sælañ/ a hvøria hier minst verdur/ er þsse/ SÆler eru Myskunsamer/ þvi þeir munu Myskun hlioota.

J H. Ritningu/ verdr sierdeilis gieted þreþalldrar Myskunseme. Fyrst er Nad z Myskunseme Lifanda Guds/ vid oss aumar og Syndugar Mañeskiur/ hvør ad Ny og fersk er a hveriū Morgne. Hvøria Lærefadereñ Augustinus kallar/ Reginam Cælorum/ Himensins Drottningu. Añnr Myskunseme a Heima hia oss Møñunū/ nær vier audsynū þm aumu/ Voludu og Nialparlausu nockud gott/ hvert hell dur sm̄ þ skiedur mz Ordū edur verkū. Þridiaslags Myskunseme er su sm̄ Madur giører vid sialfañ sig/ þa eirn edur añar helldur ecke meir af sialfū sier eñ hañū ber af sier ad hallda/ og þtta er nu su þriggia handaslags Myskunseme/ sem eg strax sagde/ hvørrar gieted ve rdur j Heilagre Ritningu.

# Vm þa siøttu Sæluna.

SV siøtta Sælañ er j̃næfñden/ j þssu Herrans Christi Ordū/ þar hñ seiger/ SÆler eru Hreinhiartader/ þvi þr munu Gud sia. Hier kañ einhvør ad seigia. Hvørneñ kiemr þ til/ ad Sonur Guds talar hier so/ og seiger/ Ad SÆler Sieu Hreinhiartader? Seiger ecke Job so/ 15. Cap. Hvad er Mañeskiañ þss/ ad han skyllde vera hrein? Sia þu ad þar er eingeñ Ostraffanlegur a medal hñs Heilagra/ og Himnarner eru ecke hreiner fyrer hønum. Item seiger David Psalm. 14. Aller eru þr fraasnwner og aller saman hvør med ødrū Onyter ordner/ þar er eingeñ sem gott giører og ecke eirn. Þessu sam-

hlioodar

Blooda Ord Spamansins Esa. 64. Vier (seiger hn̄) erū allet sem̄ hiner Ohreinu/ og allt vort Riettlæte er sem̄ añar Opecktar Leppur.

Hvar fyrer seiger Herrañ Christur þa hier/ Ad SAler Sieu Hrein hiartader? Hier til svarast so/ Þad er vissulegã og Obrygdanlega satt Ad af Natturuñe erū vier aller Ohreiner/ og j Syndunum Gietner og Fædder/ svo sem̄ David seiger/ Psalm. 51. Eñ vier skulum vita/ ad þetta Ord HReinhiartadur/ mä og kañ ad skiliast j þrefalldañ mäta.

Fyrst meiga þr aller riettelega HReinhiartader kallast sem þvegner og Laugader eru mz Jesu Guds Sonar Dyrmæta Bloode j Skÿrneñe/ þviad Bloded JEsu Christi hreinsar oss af allre Synd/ 1. Joh. 1.

J añañ mäta meiga þr og so HReinhiartader heita og nefnast/ sem hwa yfer Heiløgū og hreinū Þaunkū/ Ordū og Giørdū/ eñ þo einkañlega og sierdeilis/ þr sem ad fordast og taka sier vara fyrer allskonar jllum og Audstygelegū Løstū/ so sem̄ ad eru Hoordoomar/ Frillulifnadur Raan/ Þioofnadur/ Lygar/ og añad þess konar/ Hvar um̄ Postulenn Pall so talar/ 1. Tess. 4. Þad er (seiger hn̄) Vilie Guds ydar Helgun/ ad þier um̄flyed Hooraner/ og hvør ydar sem eirn vite ad eignast sitt Kier j Helgun og Heydre.

J þridiu Grein/ kallast þr aller HReinhiartader/ þ ad eru an Svika og Underferlis/ hafande eckert Falskt Hiarta j sier/ so þr hure añad hid jnra/ eñ tale añad hid ytra. Soddañ Gafn var giæddur og pryddur Nathanael fordū/ hvøriū sialfur Herrañ vor JEsus/ giefur þeñañ Gullvæga Vitnesburd/ seigiande/ Sia/ þar er eirn Riettur Jsraelite/ j hvøriū eingeñ Svik eru/ Joh. 1. Cap. Um̄ þvilijka Meñ talar David so/ Psalm. 15. seigiande/ Hvør mun gänga uppa Fialled Drottens? Og hvør mun standa j hn̄s heilaga Stad? Sa ed hefur Meinlausar Hendur/ og hn̄ sem er Hreinhiartadur. Hier fyrer bidur hn̄ Gud so sialfur/ Psalm. 51. Hreint Hiarta skapa þu Gud j mier/ etc. etc. Og um̄ alla þa sem so haga sier/ seiger Sonr Guds ad ÞEir Skule Gud Sia. Eñ hvad er þ kañ einhvør ad seigia/ ad sia Gud? Forfadereñ Jacob sagde/ Jeg hefe sied DRotteñ/ Auglite til Auglitis/ og myn Aund er frelst/ Gen. 32. Moyses Guds Madur villde

ur villde feigeñ hafa þeinged ad sia Gud / eñ hñ fieck ecke ad sia meir eñ a Baked a hõnũ / þvi so sagde Drotteñ til hñs / Eingeñ Madur mun lifa / sem mig sier / Exo. 33. Esaias Spamadur sa og so Drotteñ sitia a einũ hãu Stoole / ꝛ Falldur hñs Klæda / uppfyllde Mustered / Esa. 6. Vier lesũ og eirneñ ad þr siötyu Aulldungar / j Israel / sm̃ geingu uppa Fialled mz Moyse og Aaron / hafe sied Gud / og under hñs Footum hafe vered ad sia / so sem fagur Saphirus / edur so sem Himeniñ / þa hñ er Heidbiartur / Exo. 14. J lyckañ maatta þa sa hinn Heilage Stephanus j syñu Audlite / Himeneñ opeñ / og JEsũ standa ande til Guds Hægre Handar / Act. 7. Eñ hvørneñ þtta hafe til geinged / eda hvørneñ þssare Sioon hafe vered hattad / kuñũ vier ecke ad vita / þvi so seiger Johañes / 1. Cap. Eingeñ hefr Gud nockurn Tijma sied / Sa Eingietne Sonureñ / sem er j Skaute Fødursins / hefur oss þ openberad. Item / seiger Post. Pall / ad Ad Gud bwe j þvi Lioose sm̃ eingeñ fæe tilkomest. 1. Tim. 6. C. Eñ ecke talar Sonur Guds / hier einungis um̃ þssa / helldur seiger hñ / ad þr Hrein hiortudu mune Gud sia / þ er ad skilia / Fyrst hier j Lijfe / mz Augum Truareñar / ꝛ so sijdañ añars Heims j Himnarijke / hvar vier munũ sia hñ / Auglite til Auglitis / so sm̃ sialfur hñ er. Nu / hier þvert a moote / hvørier hellst sm̃ ecke eru Hreinhiartader / þ er / þr sm̃ ecke eru þvegner og hreinsader fyrer Blooded Christi / j Skyrneñe / af syñũ Syndũ ꝛ ecke Hugga sig j sañre Truu / vid Forþienustu Pijnu ꝛ Dauda Guds Sonar / og ecke varast ad drygia Storsynder og Glæpe / a moote Samvitskuñe / etc. etc. Þeir munu ecke fa ad sia Gud.

# Um þa siøundu Sæluna.

SV siøunda Sælañ / um̃ hvøria Herrañ Christur talar hier / er þsse. Sæler eru Fridsamer / þvi þr munu Guds Børn kallader verda. Hvørier ad riettelega meige heita ꝛ kallast FRidsamer Meñ / Þad þarf ecke mz mørgũ Ordũ vt ad skyra / þt Eindrægne og Fridseme er sooðañ eiñ Edla Dygd / sm̃ ecke verdur nooglega Lofud og prysud / so sem þa eirn Samchristeñ hagar sier so j Ordũ og Verkũ vid sin Naa

unga/ ad hn̄ stygger hn̄ ecke/ helldur ad hvør kome ødrū til Hialpar/ þar þørf giørest. Soddan Dygd er harla Naudsynleg j ølluū Stiett um. Fyrst j þre Andlegu Stiettene/ þvi so seiger David/ Psalm. 133. Sia þu/ hvad ægiætt og Elskulegt þ er/ þa Brædurner bwa hv ør vid aññan Samþyckelega? Þar næst j þre Veralldlegu Stiett, ene/ þa er þsse Dygden Omissande/ Quia Concordia res Parvæ Cres cunt/ Discordia maximæ dilabuntur/ seiger sa Heidne Salustius. Þad er/ Litlar Alner kuña ad æraxtast med Eindrægne og Samþycke. Þar a moot kuñ stoor Audæfe/ og so fyrer Osamþycke og Deiling snarlega ad eidast/ hvar uppa fiñast meiga Otelianlega mørg Dæme/ bæde forn og Ny. J þridia lage/ er þesse Dygden omissande/ j Hwsstioornar stiettene/ þvi svo seiger Syrach. Þar eru þrh Kostu leger Hluter/ sem Giedþecker eru bæde Gude og Møñū/ sem er/ þa Bræðurner eru Samþycker/ og Nagrañarner Elstast/ og Madur og Kona vel forlijkast. Eñ hvad skal þa uppvekia oss og æfþsa/ til ad Yðka ꝛ Æfa oss j þssare Dygdene? Fyrst skal oss þar til knya su mikla og Owtseigianlega Naad/ Goodgyrnd og Myskunseme/ Lifanda Gu ds/ vid þad Mañlega Kyn/ Vm hvøria sialfur Sonur Guds so talar og seiger/ Joh. 3. So Elskade Gud Heimeñ/ ad hn̄ gaf wt siñ Ei ngieteñ Son/ uppa þad/ ad aller þeir sem a hn̄ trwa/ forerfarest eige/ helldur hafe eilijft Lijf. Sømuleidis seiger so Post. Pall/ j Pistlenū til Rom. 5. Cap. J þvi prijssade Gud siñ Kiærleika vid oss/ ad Christur hefur fyrer oss Dæed/ þa þegar vier vorum eñ Synduger/ Og eñ apkur seiger hn̄ so/ 2. Pistle til Cor. 5. Gud var j Christo/ og forlijkade Heimiñ vid sialfañ sig/ Tilreiknande þm̄ eige sijnar Synder/ og hefur uppreist vor a medal Orded af Forlijkuneñe. Þar næst/ skal oss upphvetia til Fridar og Forlijkunar/ vid vorn Samchristenn Naunga/ Sa Nakomne Skylldugleike sem er vor a mille/ þvi vier erum aller Jñbyrdis Brædur og Systur/ hafande eirn sama Fødur a Himnum/ hvørn vier Daglega akøllum j vorre Mottenlegre Bæn/ seigiande/ Fader Vor/ etc. etc.

J þridia lage sk oss koma til Fridar ꝛ Forlijkunar/ Su Breñande

Þañ ẽ Herrañ Christi gjorde skömu ꝥ sijna Pijnu/segiande/ Heilage Fader/ Geim þa j þijnu Nafne/ hvøria þu gafst mier/ ad þeir sieu eitt sem vid.

J Fiorda ⁊ sijdasta maata/skal oss hier til Aminña ⁊ uppvekia/Befalning sialfs Lifanda Guds/þar hñ seiger/Eitt nijtt Bod gief eg ydur Elsked hvør añañ iñbirdis/so ẽ þeg hefe ydr elskad/ þvi þar af þeckest þier/ad vera mijner Læresveinar/ef þier elskest iñbirdis/Joh. 13.

# Um þa Attundu Sæluna.

NU fylger nu epter su sijdasta edur Attunda Sælañ/ þar Herrañ Christur talar so og seiger/ Sæler eru þeir sem fyrer Riettlætesins saker Offsokter verda/ þviad þeirra er Himnarijke. Ecke eru hier med meinter/ þeir sm̃ verda ad lijda Kvaler og Pintingar/ vegna Rangs Lærdooms/ sm̃ þeir kieña ⁊ medfara. Ecke þeir helldur/ sem straffader verda fyrer sijn Illvirke/ eda þeir/sm̃ taka Illt wt a sialfu sier/⁊ svellta sig sialfa/ fyrr eñ þeir bere sig ecke ad safna nockrum Manrum. Helldur talar Sonur Guds hier/um rietta og saña Christna Meñ/ sm̃ vegna Erwareñar og Jesu Nafns Vidurkieñingar/ verda ad lijda margvijslegar Offsokner og Harmkvæle/Um þssa talar Herrañ Christur hier og seiger/Ad þvilijkra Sie Himnarijke.

J Nidurlage Gudspiallsins/Tilleggur Herrañ Christur þesse Ord ⁊ seiger til Læresveinaña siña. Sæler erud þier / nær ed Meñerner Hallmæla ydur og Offsookn veita/⁊ tala i giegn ydur alla Vondsku/ ꝥ mijn" saker þo liugande/fagne þier ⁊ vered glader/þviad ydart Verdkaup er nooglegt a Himnum. Eñ hvilijkt Verdkaup/ ⁊ hvilijk Laun munu þetta þa verda? O/ ꝥ verda soddañ Laun/ sm̃ hvørke hafa Auga sied/ecke Eyra heyrt/ eda i nockurs Mañs Hiarta stijged/1.Cor. 2. Þessara Dygdarlauna niootande ad verda/ um alla Eilijfd i Himnarijke/þad veite oss Gud Fader/fyrer Dijrmæta Forþienustu ⁊ Medalgaungu sijns Hiartans Sonar Jesu Christi. Hvørium med sijnu Himneska Fødur og Heilogum Anda/ sie Lof/ Dyrd/Æra ⁊ Þackargiørd/ nu hiedañ i fra/ ⁊ ad Eilijfu/Am̃. Am̃. J Jesu Nafne/Am̃.

# Tuttugasta og þridia Sunnudag epter Trinitatis.

Evangelium/ Matth. 22. Cap.

A Þann Tyma. Þa geingu Pharisearner j burt/ og setu Rad saman/ ad þeir þeinge veitt hann j Ordum/ Og sendu til hans sijna Læresveina/ med Herodis Þienurum so seigiande/ Meystare/ vier vitum þad ad þu er Sannsogull/ og kienner Guds Gotu j Sannleika/ og skeyter ei nockrum/ þui ad þu ser ey ad Mannvirdingum / Þar fyrer seig þu oss/ hvad þier lyst/ Hvert leiþest ad giefa Keysaranum Skatt edur ei? En þa Jesus þormerkte þeirra Flattskap/ sagde hann/ Hvad þreyste þier mijn Hræsnarar? Syned mier Myntena Peningsins. Og þeir syndu honum Peningenn. JEsus sagde til þeirra. Hvors Mynd og Yfirskrift er þetta? Þeir sogdu honum/ Keysarans. Þa sagde hann til þeirra/ Gieþed þa Keysaranum hvad Keysarans er/ Og þad Gude hvad Guds er. Og er þeir heyrdu þetta/ Undrudust þeir/ forlietu hann og geingu j burt.

## Exordium.

Mier lesum/ Elskuleg Guds Børn/ j Domara Bok. 15. Cap. Umm Samson/ þegar hann villde giora Skada þeim Philisteis þa haþe hann geinged ut/ og veitt þriu Hundrud Reþa/ og snued Holunum a þeim til samans/ og bunded Elldskijd a millum hvørra tveggia Hala/ og slept þeim sijdan lausum j Korn-Akra Philisteanna og uppbrendt þeirra Bindine/ og þad standanda Korn.

Alijka Dæme verdur oss hier synt og þyrer Siooner sett/ j þessa Dags Evangelio/ a Þienurum Herodis og Phariseanna/ hverier ad riette sega meiga lijkiast vid þessa Samsons Refa/ þvi þad ma seigiast og sijnast/ af þra Hegdan og Breitne/ ad þr haþe vered svo sem til samans kinsader og þester/ a Holunum/ j þvi ad taka sijn Rad saman/ hvørn enn þr kynne ad aþma Christum og hans Heylsusama Lærdoom. Og saa-

ast þad hier miøg merkelega/ sem Post. Petur seiger j Giørninga Bok Post. 4. Cap. Sañarlega komu þr til samans/ j giegn þijnu Heilaga Barne JEsu/ sem þu smurt hafder/ Herodes ꝛ Pontius Pilatus samt ødrū Heidingiū/ og Jsraels Foolke/ ad giøra hvad þijn Hønd ꝛ þitt Rad hafde ꜳdur fyrre hugad/ ad ske skyllde.

Eñ so sem þad/ ad Samsons Refar Brendu ecke alleinasta Pilisteañа Kornhlødur/ helldur og so fordiørfudu sialfa sig/ af þm̄ Elldebrande/ sm̄ þr uppkveiktu j þra Korne/ So foor og so Phariseaña og Herodis þienurum/ ad þr fiellu j þa sømu Grøf hveria þeir hugdu Christo ad bua. Hier um̄ vilium vier heyra nockud framar talad j stuttlegre Vtleggingu þssa H. Evangelij/ hveriu vier viliū sundur skipta j tvær Greiner. Og skal hin fyrre vera um̄ Spurning þa/ sem þ.ier Herodis og Phariseaña Sendesveinar/ setia fram̄ fyrer Christum. Auñur um̄ Andsvar Herrans Christi/ med hvørꜳ hn̄ skørulega so sem añar Hꜳlærdur Doctor og Læremeystare svarar þm̄ og falla ꜳtlaufn giører/ a þra Spurningu.

Nu/ Sa riette Meystare yfer øllū Meysturū/ hvøriū Foolgner eru aller Fiꜳrsiooder Vijsdoomsins og Spekeñar/ Leide oss til þssara Gudspialls Orda riettelegrar Kyñingar/ og Heilsusamlegrar Vppfrꜳding ar/ j JEsu Nafne/ Amen.

# Fyrre Greinenn.

I Vpphafe Gudspiallsins stendur so. Þa geingu Pariseарner burt/ og settu Rꜳd samañ/ ad þeir feinge veitt hañ j Ordum.

Fyrst er oss athugande j þvi fyrra Greinarkornenu/ hvønær eda a hvør iū Tijma ad Pharisearner hafe teked þsse sijn Rꜳd samañ/ um̄ Herrañ Christum. Eñ þ syner oss þtta Ordkorned/ ÞA/ sm̄ hier stendur strax j Vpphafe Gudspiallsins/ sem er/ þad hafe vered j þad sama sin/ sm̄ hn̄ framsette fyrer Høfudprestana og Aulldungana/ þssar tvær Epterlijkingar. Hin fyrre var um̄ Vijngards Herrañ sem hafde Leigt ødrū siñ Vijngard/ eñ þr borgudu hønū ecke ødru aptur/ eñ þvi /ad þr tooku hns Son og Aflijfudu hn̄/ Matth. 21. Auñur um̄ Brudkauped

wdkauped sem sa Himnesk[e] Kongureñ giørde Syne Synum. Þad, ar þessar Epterlijkingar/ framsette vor Blessade Endurlausnare/ fyrer Gydinga/ skomu epter Jñreid sijna/ j Borgena Jerusalem/ sem var þrem Døgū fyrer hñs Kvøl og Pijnu/ sem hñ leid vorra vegna.
Eñ mz þvi/ ad Gydingar Skyniudu vel og underſtoodu/ ad Herrann Christur hneygde þessar badar Epterlijkingar/ uppa sig/ þa Erte þ illa mz þm̄/ Tooku þar fyrer Raad sijn samañ hvorneñ þeir gæte best hefnt sijn a honū aptur/ fyrer þessar Epterlijkingar/ hveriar hñ Blessad ur framsette þo sialfum þm̄ til Vidvorunar og Betrunar.

Eins geingur þeñ nu til a þessū Døgū/ fyrer Kieñemoñū z Guds Ords Þienurū/ ad þegar þr seigia þrre Ogudlegu Verelldu til Synda siña/ þa forþiena þr somu Þeck/ sm̄ Christur og hñs Læresveinar feingu adur fordum. Ja/ Verallдareñar Børn eru reid uppa þa/ sem straffa þa j Þortunū/ og hallda þañ fyrer Svivirding sem Heilnæmt kieñer/ epter þvi sem Spamadureñ Amos ad Orde kiemst/ 5. Cap. Dæme hier uppa hofū vier allmerg j H. Ritningu. Jessabel soor/ ad hun skyllde af Lijfe taka Spamañeñ Eliam/ og Ofsookte hñ/so hñ vard ad flya fyrer heñe/ sem þar stendur/ 1. Book. Kong. 19. Herodes liet Aflijfa Johañem fyrer þ/ hañ sagde hønū beiskañ Sañleik/ og straffade hñ fyrer sijna Bloodskem̄/ Matth. 14.

Þar skylldu ecke fiñast eñ nu þr/ sem sitia under Guds Orda Heyrn/ og ef þm fellur ecke Prestsins Kieñing so vel j Gied/ sm̄ þr vilia eda þm̄ þyker sig nockud snerta/ þ Kieñemadureñ fram̄setur j siñe Predikun/ þa safna þr Mood/ og þeinkia so mz sier/ Eg skal þacka þier fyrer Predikuñena einhvørn Tijma. Eñ soddañ Meñ giøra sier sialfū mesta Skada/ Þviad Guds Ord/hvert ad j sialfu sier er Kraptur Guds til Sæluhialpareñar/ øllū þm̄ sem þvi trua/ Rom. 1. Verdur þm̄ mz soddañ moote Jlmur Daudans til Daudans/ 2. Cor. 2. Þar fyrer skyllde hvørt og eitt Guds Barn vora sia og giera ecke s[...]dd añ/ helldur medtaka Ordid mz Hogværd/ epter þvi sem Postuleñ Jacob Rædleggur/ j sijns Pistils 1. Cap.

Framveigis verdur oss hier synt/ af þessare Evdspialls Historiu/ hv

ad þyrer Foolk þetta hafe vered/ sm̃ took sig saman̄ moti Herranū Christo sm̃ er/ bæde Andlegrar + Veralldlegrar Stiettar Men̄. Hvørnen̄ byr ia þr þa Rædu sijna vid hn̄? Þeir byria hana med þøgrum og For bloomudū Ordum a þeñañ Hatt/ seigiande/ Meystare/ vier vitū ad þu ert Sañsøgull/ og kieñer Guds Gøtu j Sañleika/ skeyter ei nockrum/ þvi þu ser ecke ad Mañvirdingum. Og þo þr þeinktu allt añad j Hiartanu/ þa var þ samt allt hvøriu Orde sañara/ sm̃ þeir um̃ tøludu/ Ja/ Hañ var sa riette Meystare/ mz þa Lærdu Tunguna og þss vegna seiger hn̄ so sialþur/ vid sijna Læresveina/ hia Joh. 13. Þier kalled mig Meystara og Herra/ þad giøred þier rett/ þvi eg er þ eirneñ. Þad hn̄ være Sañordur/ og kiende Guds Gøtu j Sañleika þad søgdu þr og so satt/ þvi hn̄ er trwr Vottur/ sa er ecke kañ ad Ljuga/ Openb. B. 1. + Heb. 6. Þar þyrer giører hn̄ þssa Jatning/ þyrer Pilato/ og seiger/ þar til er eg Fæddur og j Heimeñ komeñ/ ad eg bere Vitne Sañleikanum. J þridia lage sæta þr hier þad og so um̃ hn̄/ Ad hn̄ þare ecke ad Mañvirdingū/ þad tøludu þr eirneñ riett/ þvi hn̄ er eirn Herra yþer øllū Hlutū/ um̃ hvern skriþad stendur/ Hañ mun ecke Dæma epter þvi sem hn̄s Augu sia/ og ecke Straffa epter þvi sem hn̄s Eyru heyra/ helldur mun hn̄ Dæma mz Riett vijse hina Fatæku/ + medr Doome Hyrta þa Aumu j Landenu/ Esa. 11

Hier aþ haþa nu aller Trwlinder Guds Ords Þienarar/ sier merkelegt Epterdæme ad taka/ og læra ad þeta i Fotspor sijns Herra/ þyrst J þvi/ ad vera ecke Feaþrooder sem Barn/ eda sem eirn a sijnum Ungdoms Arum/ helldur ad vera eirn Meystare/ þad er soddañ eirn Madur sem sig heþr vel Ydkad j Guds Orde/ haþande sier j Miñe þ Syrach Rædleggur 15. Cap. seigiande/ Lær þu sialþur ædur eñ þu kieñer ødrū Meñum/ + so sm̃ þ/ ad Gud hiellt þordū/ j þvi Gamla Testamentenu Asnañ/ Opienañlegañ Grip til Offursins/ so sem lesa ma/ Exo. B. 24. Cap. So vill hn̄ + ecke helldur lijda/ soddañ Asna j sijn̄e Kyrkiu Þionustu/ sm̃ sialþer eckert vita/ eñ lataſt þo vilia kieña ødrū/ helldr a eirn Trwlindur Guds Ords Þienare/ ad vera mattugur til ad amijña/ þyrer Heilsusamlegañ Lærdoom/ og ad straffa þa

sem a mote

sem a moote mæla/ Tit. 1. J añañ mata/ ber einu Predikara edur Kieñemañe/ ad vera Sañordu/ epter Dæme Herrans Christi/ þui þo so sie/ ad aller eige ad þordast Lygar ꝛ Osañinde/ so miked sm̄ møgulegt er/ mz þui þ er eirn Andstyggelegur Løstur/ epter þui sm̄ Syrach seiger/ 10. Cap. Þa eiga þo hellst Guds Ords Þienarar/ ad giæta vel ꝛ vandlega ad sier/ so þr ko̅ne ecke uppa Predikunarstool eñ/ añad hvørt med rangañ Lærdoom/ edur þ sm̄ þr kuña ecke ad bevija, sa wt aþ H. Ritningu. J Þridia lage a eirn Kieñemadur ad vera Hugdiarþur ꝛ Ohræddur ad seigia hvøriu sm̄ einu til Synda siña/ hvert hñ a ad sier miked eda litted. Nu vilium vier fara leingra æfram/ ꝛ heyra hvør vered hafe Spurningeñ/ sm̄ þsser Phariseaña og Herodis Sendesveinar/ framsettu fyrer Herrañ Christum. Gudspiallamadureñ seiger/ hun hafe vered þsse/ Hvørt (hønu Blessudum) Synndest þ riett vera/ Ad K. Keysaranu skyllde Skattur giefast edur ecke? Eñ Ordsøk ꝛ Tilefne til þssarar Spurningar/ var su/ Ad Gud Drotteñ hafde ædur befalad/ ad hvør og ein Kallmans Persoona sm̄ var Tvitug ad Alldre/ skyllde giefa Arlega eirn halfañ Sikel Silfurs/ þad er so miked sm̄ Ort wr Dal/ j Mustered/ hvad ad hlioop sig eina mikla og stoora Sumu Peninga/ ꝛ hvad sm̄ ecke var brukad aþ þssu Peningu/ til Guds Þionustugiørdar edur Vnderholdningar Mustteresins og Prestaña/ þ var geimt og forvarad j Kyrkiuñar Peninga Hyrdslu. Eñ epter þ/ ad sa Romverske Keysare hafe lagt under sig Gydinga Land/ þa tok hñ allañ þeñañ Kyrkiuñar Skatt til sijn og wtbytte hønu a medal sijns Herlids og Strijdsmaña/ þm̄ til Atviñu og Vnderholdningar. Þetta fiell Gydingu næsta þungt/ og þss vegna senda þr hiner Yppurstu sijna Læresveina til Herrans Christum/ og lata spiria hñ ad/ hvert þ sie riett/ ad þr skylldu giefa Keysaranu þañ Skatt/ sem Gud hafde ædur til sett og skipad/ ad gialldast skyllde til Mustteresins? Og þo þsse þra Spurning syndest j snøggu alike Einlæg ꝛ einfalldleg/ þa høfdu þr þo samt hana þar uppa byggt/ ad vor Blessade Endurlausnare skyllde sig a heñe forgrijpa/ so ef hñ segde Ja/ ad þr skyllde giefa Keysaranu Skatt/ þa skillde allt

 Foolked

Foolked taka sig upp a moote hönū/ hafa hñ og hñs Lærdoom/ fyr, er þ ad hñ hiellde a moote þess Frijheitū. Eñ segde hñ Nei/ ad þeir være Keysaranum uñ Skatt skyllduger/ þa skylldu Herodis Þienarar eige seirna grijpa hñ fangiñ/ og færa hñ fyrer Keysarañ/ soo s eirn Odæda Mañ s sette sig uppa moote Yfervalldenu/ z villde þui ecke hlijda. Eñ hvøriu mun Herrañ Lijþsis svara þessum Skalkum aptur/ uppa sijna Spurning? Þad verdur oss nu kient j þessu sijdara Greinarkorn- enu/ sem epterfylger.

# Aunnur Greiniñ.

Gudspiallamadureñ seiger/ad þegar Jesus hafe fornmerkt þra Flatkskap/ þa hafe hñ tekid so til Orda z sagt/Hvad Freisted þier Mijn Hræsnarar? Þad er/ sm hefte hñ so sagt/ meine þier ecke/ad eg mune sia z fornmerkia/ hvad ydur byr i Giede vid mig/ þier taled allt añad med Mañenum/ eñ þier þeinked i Hiartanu.

Hier af hefū vier oss þ til Huggunar ad taka/ Ad ef Ovitner vorer vilia umsitia oss/ z fiña uppa eitthvørt þ Rad/med hvøriu þeir kuñe ad fordiarfa oss og skada ad giora/þa eigum vier þañ Herra z Hialpar mañ/s ecke eiñungis sier z þecker hvørs z eins Mañs Hiarta/hvørt þ byr yfer Goodu edur Illu/helldur z eirniñ þañ/ sm umvellta kañ Rad um þra Rangferdugu/so þeir giete ecke komed sijnū vilia fram/Joh. 5

Vier lærū hier og eirniñ/ecke alleinasta ad þeckia z vidurkieña vorn Herra og Frelsara Jesū Christū/fyrer eirn sliettañ Mañ/helldur z so þ sañañ/Eilijfañ z Almattugañ Gud/fyrer hvørium eckert er hulid eda dulid. Vier lesū ad señu nm Spameñena/ þ þeir hafe af mørgu þui vitad/s huled atte ad vera. So visse Spamaduriñ Elisæus (þo fiær lægur være) allt þ sm Konguriñ i Syria talade vid sijna Radgiafara i sijnu Svefnherberge/2. B. K. 6. C. Eñ vier skulū vita/ad þeir hø fdu þ ecke af sialfum sier/ helldur af Gudlegre Openberingu/þeir vi ssu og ecke helldur neitt framar/eñ Gud villde þeim openbera. Eñ ødru vijse er þui vared fyrer Herranum Christo/ þui hañ er sa/ i hvørium hulder eru aller Fiesiooder Vijskuñar z Vidurkieñingariñar/Col. 2.

Framveigis seiger Gudspiallamadurinn/ ad Herrann Christur hafe sagt til þessara Phariseanna Sendemanna/ Syned mier Myntena Peningsins/ z þeir þeingu honum Peninginn. Hann spyr þa enn framar/ z seiger/ Hvørs Mynd og Yfferskrifft er þetta/ enn þeir seigia honum/ Keysarans. Gydingar høfdu ædur fordum þau Fryheit/ ad þeir mætttu læta slaa sialfer Mynt i sijnu Lande/ Enn æ þeirre Mynt/ edur þeim Peningum/ sem til Musteresins ætttu ad giefast/ høfdu þeir fierdeilis Stimpel z Yfferskrifft/ þvi uppa adra Siduna Peningsins var stimpladur sa blomgade Aaronis Vøndur/ med þessare Yfferskrifft/ Eirn Israelitskur Sekill/ enn uppa adra/ eitt Reykelsis Kier/ med þeirre Yfferskrifft/ Su Heilaga Jerusalem. Enn epter æ seirna/ æ Døgum Christi/ þegar Gydingar voru undergiefner ordner þeim Romversku/ høfdu þeir adra Mynt/ þvi æ annare Sijdunne stood Mynt Tiberij/ med þessare Yfferskrifft/ Tiberius Keysare/ enn æ annare eitt Horn/ fullt med allra Handa Avexte/ Yfferskrifftinn var þesse/ Almwganum til Gagnsemdar.

Nu med þvi ad þesser Freistarar/ Phariseanna Sendemenn/ giefa Herranum Christo þad Svar/ ad þ sie Keysarans Mynd og Yfferskrifft æ Peningenum/ sem þeir syndu hønum/ þa so sem binda þeir sialfa sig og medkienna/ ad þeir sieu nu ecke leingur Frijmenn/ eins og ædur/ helldur sieu þeir nu ordner Skattgillder under Keysarann/ Þar fyrer Andsvarad Herrann Christur/ þeim hier aptur miøg Merkelega og Meystaralega uppa þeirra Spurning/ og seiger/ GIefed þa KEysaranum HVad KEysarans Er/ Og þad GVDE HVad GVds Er.

Hier verdur oss kient/ z fyrer Siooner sett/ hvad þ sie/ sem vier sieu voru Yffervallde umm skyllduger. Fyrst erum vier þvi skylldugir/ umm Elsku og Trwskap/ ad vier Oskum þvi og unnum af Hiarta alls Goods. So giørde Ithai Getiter/ þegar David vard ad flya/ fyrer sijnum Syne Absalon/ þa villde hann ecke vid hann skilia/ helldur af Elsku þeirre z Kiærleika/ sem hann hafde til hans/ epterfylgde hann hønum/ lijka vel þo David skipade hønum ad snwa Heim aptur/ þa svarade hann hønum/ og sagde. So sannarlega sem DRottenn lifer/ hvar hellst sem minn Herra Kongurenn verdur/ hvørt sem þ er til Lijfs eda Dauda/ þar skal og þinn Þienare

 verda/

vera/ 2. B. Sam. 15. Cap. Sømu Elsku og Trwskap Reynsadē
og so Hwsai Kongenū David/ ecke alleinasta j þvi/ ad hañ hindrade
Achitophels Raad/ helldur og so varade hañ Heimuglega vid þm̄ Hæ-
ska/ sm̄ hønū var bweñ/ 2. Book Sam. 17. Og sem David villde
sialfur Personulega hafa fared a moot Absalon/ þa hefdu hn̄s Und-
ersatar/ hn̄ so kiærañ/ ad þr villdu hønū j aungvañ mata sleppa/ helld
ur søgdu/ þu skallt ecke wtfara/ þvi þu eirn ert s tÿu Þusunder af oss.
Eñ einkū og sierdeilis/ eiga Undersatarner ad bidia gott fyrer sÿnu
Yfervallde/ ad Gud vilie giefa þvi vel ⁊ Christelega ad stioorna/ ept
er þvi sm̄ Post. Paall aminñer/ j 1. Pistl. til Tim. 2. seigiande/ So
aminñe eg/ ad Meñ umfram̄ alla Hlute giøre Booner/ Bæner/ Fyr
erbeidslur og Þackargiørder/ fyrer øllū Møñū/ fyrer Kongū og
øllu Yfervallde/ uppa þ/ vier mættū hafa spakt ⁊ Roolegt Lÿfernet/ j
allre Gudrækne og Sidseme.
J añañ mata erum vier skylduger/ ad veita voru Yfervallde Til-
bærelega Æru og Virding/ hveria vier eigum ecke alleinasta ad aud-
sÿna þvi/ i wtvortis Hegdun/ sem er/ Soomasamlegum Ordum/ Kur-
teyse og Velskyckanlegheitum/ helldur og so/ ad vier holldum þad
ad vera sendt og skickad oss af sialfum Gude. Þegar Saul var kiøriñ
til Kongs/ þa voru þar sumer sm̄ hn̄ forecktudu/ og færdu hønū øng-
va Gafu/ helldur søgdu/ Hvad skal þsse hialpa oss? Eñ Heilagur Ande
giefur þm̄ aptur i stadeñ þ Nafn/ ad hañ kallar þa Lausingia / so sem
lesa ma/ 1. Bok. Sam. 10. Hvørs munu þeir þa hafa sier ad væn-
ta/ sem ecke ad eins fyrerlÿta og forsmaa sÿna Yfermeñ/ helldur og eirniñ
formæla þeim / og tala Svÿvirdelega um̄ þa? Sañlega/ þeir munu yf
er sig taka stoort Dooms Afelle/ epter þvi sem þar stendur/ i Pistl.
til Rom. 13. Capitula.
J þridia lage erum vier Skylduger voru Yfervallde/ um̄ Otta og
Hlÿdne/ j øllu þvi sem þad bÿdur oss/ og Guds Orde er ecke a moote.
Framar meir verdur oss hier kient hvad þ sie/ sm̄ vier sieum vorū
Gude um̄skylduger/ sem er fyrst/ um̄ Skatt allra vorra Lida og Lima/
þvi so seiger Post. j Pist. til Rom. 12. Jeg aminñe ydr (seiger hn̄)

ad þier

ad þier giefed ydar Lijkame til þess Offurs sem lifande er og Heilagt/ og Gude þacknæmt/ hvert ad er ydar skinsamleg Þioonusta. Gud er eirn Kongur z Herra/ yfer öllū Herrū/ s oss hefr giört ad sijnu Folke so vier skylldū þioona hm̄ j Heilagleika og Riettlæte/ epter þvi sm̄ hm̄ sialfū þocknast/ Luc. 1. Augu og Eyru/ Muñ og Tungu/ Hendur og Fætur/ Ja/ Lijf og Lijkama/ þ allt hofū vier af hm̄ þeiged og medteked. Þar fyrer ber oss aptur a moot/ ad giefa honum vora Lime/ til ad þioona Riettlætenu/ Rom. 6. Sie nu Gud þiñ Kongur og Herra/ þa ertu honū skylldugur. 1. Um Skatt þijns Hiarta/ þviad Elska skalltu DROtteñ Gud þiñ af ollu Hiarta þijnu. 2. Um Skatt þiñar Tungu/ þt alla Tijma vil eg Lofa DROtteñ hñs Lofgiord skal ætijd vera j mijnū Muñe/ seiger David/ Psal. 34. 3. Um Skatt þiña Eyrna/ þviad mijner Sauder heyra mijna Raust og eg þecke þa/ z þr fylgia mier epter/ seiger Christr hia Joh. 10. 4. Um Skatt vorra Augna/ þviad so s Augu Þienarañā horfa a Hendr siña YfEerbodara/ z so s Augu Ambattareñar horfa a Hendr siñar Hwsmoodur/ so eiga vor Augu ad horfa uppa Drotteñ vorn Gud/ Psalm. 123. 5. Um Skatt vorra Lima/ þar fyrer skalltu lata Christi Lime vera/ og giöra þar ecke af Skiækiuñar Lime/ so sem Postuleñ Pall ad Orde kiemst/ 1. Cor. 6. Þa vier nu so giörū/ þa kuñum vier ad seigia med Glede/ Herra JEsu/ þier life eg/ þier Dey eg/ þiñ er eg bæde Lijfs og Lideñ.

Þar næst erū vier skyllduger vorū Gude um̄ Skatt af voru Gotze z Audæfū/ hvorn vier honū Giölldū/ þa vier giörū gott af oss/ og giefum nockud til Kyrkna og Skoola/ og einkanlega til þra Fatæku/ j hñs Nafne/ z vitum þ fyrer vyst/ ad Gud lætur soddañ Aulmusugiörder ecke Olaunadar vera/ Ottastu DRotteñ/ Heidra Prestana/ og gief þm̄ siñ Hluta/ sm̄ þier er boded/ Utriett þijna Hond Fatækum so þu verder þess rijkuglegar Blessadur/ seiger Syrach 7. Cap.

J þridia mata erū vier skyllduger Gude vorū um̄ skatt vors Erfidis/ Drotteñ hefur boded oss z skipad/ ad vier skylldū Erfida z leita vorrar Næringar/ a sex Dogum Vikuñar/ eñ þañ siounda Dageñ hefur hñ gie-

 fed oss

fed oss til Hÿlldar/ og til þess/ ad vier skÿlldum Lofa sig og Dÿrka/ fyrer alla sÿna Velgiørninga/ sem hn̄ hefur oss veitt/ a fyrer farande Viku/ Og þessū litla Skattenū eigum vier hvørke nie meigū jn̄e halda/ fyrer vorū Gude/ ad vier hn̄ ecke greidum so framt sem vier viliū ecke/ ad hann take fra oss sÿna Blessan.

Ad siøunda er oss athugande j þessu ødru Greinarkornenu/ hvørnenn ad Sendemønum Phariseana hafe brugded vid þetta Andsvar Herrans Christi/ þ wtvÿsa oss þesse Orden sem standa j Nidurlage Gudspiallsins/ og so eru hioodande/ OG Er Þeir Heirdu Þetta/ Undrudust Þeir / Forlietu Han̄ Og Geingu J Burt: Siaum hier hvo[r]su þ Herran̄ Christur/ kan̄ audvelldlega ad dempa og lægia Metnad og dramb þra/ sem vondan̄ Asetning hafa/ og setia sig til ad fordiarfa adra/ an̄adhvørt med Ordum eda Giørdum. Pharao hugde ad drekkia Israels Foolke j Hafenu Rauda/ en̄ su Olucka kom nidur a hønum sialfū/ Exod. 14. Haaman liet giøra eirn Gálga/ Fimtÿe Alna haan̄/ handa Mardochæo/ en̄ so foor ad han̄ var sialfur i hønū heingdur/ Esth. 7. Høfdingiar & Villdismen̄ Kongsins Darij/ komu þvi til Leidar/ ad Daniel skÿllde verda kastad j Leona Grøfena/ en̄ Gud sa so til/ ad han̄ skadade þad ecke/ helldur urdu þeir sialfer sundr rifner af þeim sømu Varga Dÿrū/ so s lesa maa/ j Spaadoms B. Danielis 6.

Hier vid meiga Hugga sig aller þeir sem Ofsokner og-araaser lÿda/ af Skaalkum & vondum Mønum þessa Heims/ og vera Ofvÿdner/ þvi þa Gud er med oss/ þa þurfum vier ecke ad Ottast mørg Hundrad Þusund/ þeirra sem leggia sig allt um̄ krÿng a moote oss/ seiger David/ Psalm. 3. Þvi han̄ kan̄ þa Gudhræddu wr Freistnen̄e ad frelsa/ og ad yfferstaden̄e Armædu þessa Heims/ ad giefa þeim Eilÿfa Hvÿld og Roo/ j sÿnu Dÿrdar Rÿke/ hvar þeir þurfa ecke framar ad kvÿda/ fyrer nockurskonar Offooknum/ helldur munu þeir bwa j Hæ[g]sum Fridarens/ og j Ofvÿdoen̄e Roosemd/ so sem Spaamaduren̄ Esaias ad Orde kiemst/ 32. Cap. Hvar til mier og øllum oss hialpe Gud Fader af sin̄e Nad/ Hvørium asamt med sÿnum Einaietna Syne og Heiløgum Anda/ sie Lof og Dÿrd/ nu og um̄ Allder Allda/ Amen.

Tuttugasta

# Tuttugasta og fiorda Suñudag epter Trinitatis.

Evangelium/ Matth. 9. Cap.

Vnder þañ Tyma. Þa ed JEsus talade þetta hid sama til þeirra. Sia þu/ ad Hofdinge nockur gieck ad/ z tilbad hañ seigiande/ Herra/ Myn Dootter er Nyſkalud/ eñ þu kom og legg þyna Hond yfer hana/ og mun hun lifa. Og JEsus stood upp/ og fylgde honum/ og so hañs Læresveinar. Og sia þu/ ad kona/ hvor ed haft hafde Bloodfall j tolf Ar/ gieck a Bak til vid hañ/ og snerte Falld hañs Klædnadar. Þvi hun sagde med sialfre sier/ Ef ad eg mætte ad eins snerta hañs Klædnad munde eg Heilbrygd verda. Eñ JEsus snerest vid/ leit til heñar z sagde. Vertu Hughraust Dootter/ þyn Trwa giorde þig Heilbrygda. Og a þre somu Stundu vard Konañ heilbrygd. Og þa ed Jesus kom jñ i Hofdingians Hws/z sa þar Lwdurþeytara z Bulldran Foolsins/ sagde hañ til þeirra/ Vijked frꝛ/ þvi ecke er Stwlkañ Daud/ helldur sefur hun/ Og þeir Dꝛrudu hañ. Eñ sem Foolked var wtdrifed/ gieck hañ þar jñ/ og took j heñar Hond. Og Stwlkañ stood upp/ Og þetta Ryckte barst wt/ um allt þ sama Land.

## Exordium.

Ad Levitici Bookar 15. Cap. Lesum vier/ Ad Gud DROttenn hafe giefed Israels Foolke/ a medal añara/ þ Logmaal/ Ad nær ein Kviña hafde Bloodlaat a sijnum Lijkama/ þa skyllde hun vera fyrer sig sialfa/ j sio Daga/ og hver hana snerte sa skyllde og so Ohreirn vera/ allt til Kvellds. Sama var og so um þa Framlidnu/ ad hvør sem þa snerte/ sa ætte ad vera Ohreirn j sio Daga/ so sm þar stendur/ Num. Book. 19. Cap. Eñ Herrañ Christur fer ecke epter þessu/ þvi bæde leifer hñ og lijdur ad su Bloodfallsiwka Konañ snerte sig/ Þar med lijka hrærer hañ sialfur med siñe Signudu Hende/ vid þa Framlidnu Jairi Dootttur/ hvar med hañ villde Openberlega hafa

synt og bevysad/ þ hañ være eirn Herra yfer Logmalenu/ sm̃ aungva Saurgan tæke/ helldur være hañ miklu framar komeñ hingad j þeñann Heim/ til þss/ ad hañ hreinsade sier sialfū eitt Foolk til Eignar/ sem kostgiæfed være til goodra Verka/ Tit. 2.

Eñ lijka so sem þ/ ad þær Bloodfallsiuku Kviñurnar/ voru vtelukstar af Tialldbudeñe/ j þvi Gamla Testamentenu. Eins hefdum vier og so orded vtelukter ad vera/ vegna vors Iñra z Andlega Saurugleika/ fra þm̃ Eilijfu og Himnesku Tialldbudum/ hefde vor Blessade Endurlausnare Christur IEsus/ ecke hreinsad Sæler vorar/ af þessum Ohreinleikanum/ hvar fyrer oss ber ad seigia hønum Eilijfar Hiartans þacker. Og viliū vier æn leingra Iñgangs / taka oss fyrer Hendur/ ad skoda og yfervega þetta Heilaga Evangelium/ og þ j tveimur Smærgreinum stuttlega yferfara. Hin fyrre skal vera uñ þ mikla Dasemdarverk Herrans Christi/ þar hañ uppvakte af Dauda þa ungu Jairi Dotter. Auñur uñ þa Bloodfallssiuku Kviñuna/ Og hvørsu þ/ Herrañ Christur gaf heñe sijna Heilbrygde aptur/ med þvi fleyra/ sem hier ad hnijgur/ og oss mæ til Lærdooms/ Huggunar/ og Betrunar koma. Nu/ sa Ædste Hialpare og Styrkur Drottenñ vor IEsus Christus/ sende oss sijna Nad og Hialp/ so vier mættū nockud gott hier vt af Læra/ z oss til Nytsemdar færa/ Am̃.

# Fyrre Greinenn.

I Upphafe Gudspiallsins stendur so: Og þa IEsus talade þetta hid sama til þeirra/ Sia þu/ Ad Høfdinge nockur gieck ad/ og tilbad hñ seigiande/ Herra/ mijn Dootter er Nysalud/ eñ þu kom og legg þijna Hønd yfer hana/ og mun hun lifa.

Fyrst er oss hier athugande/ uñ hvad Herrañ Christur hafe vered ad tala/ þa þesse Høfdinge Jairus kom til hañs/ sem er/ Hañ var ad Andsvara Læresveinū Johañis/ uppa Spurning þa/ sem þeir fram̃ settu fyrer hañ/ so sem lioost er af sama Capitula sem þetta Heilaga Evangelium stendur j skrifad. Hvar af vier høfum þ ad Læra/ hvørsu Astundunarsamur og Kostgiæfeñ ad vor Lijfgiafe Endurlausnare hafe vered

ße vered alla Tijma j þvi/ ad Kieña/ Predika og Vppfræda j Guds Orde/ sijna Tilheyrendur. Eñ þess a mille/ sem hañ var þ ecke ad giøra/ þa var hañs Idia ecke øñur eñ su/ ad gæanga um̃ Krijng/ giøra til gooda/ og græda alla þa sem af Diøflenum voru Vnderþryckter/ Postulaña Giørn. B. 10. O Gud giæfe/ ad vorer Prestar og Kieñe/ meñ villdu j sama mæta æstunda og Kostgiæfa af allre Alwd/ ad wtbr eyda Guds Ord/ og kieña þ sim̃ flestũ/ so Guds Rijke mætte Vppby ggiast eñ Diøfulsins Rijke niourbriootast. Jæ/ Gud giæfe og so/ad þr sim̃ Herrañ hefur lænad Aud og Rijkedæme/ Gotz og Peninga þssa Heims/ þr villdu hafa Gud fyrer Augum sier/ og apturlwka ecke sitt Hiarta fyrer þm̃ Aumu og voludu/ fyrer þm̃ Sincku og Særu/ helld ur giøra þm̃ gott/ þvi aungvañ liet Christur syniande fræ sier fara/ af þeim̃ sim̃ til hñs komu/so hñ añadhvørt kiende þm̃ ecke Guds Ord/ þm̃ til Sælu hialpar/ edur læknade þa/ og giørde þm̃ til gooda/ epter þvi sim̃ hñ Blessadur sæ/ ad hvør hafde Þørf og Naudsyn fyrer/ so s liosleg a mæ siæ/ bæde af þssu H. Evangelio/ s z vijdar añarstadar.

Þad añad sim̃ vier høfum ad athuga wt af þssu Heilaga Gudspialle er þ/ Hvør og hvijlijkur ad vered hafe þsse Madur sim̃ kom til Herr, ans Christum/ og bad hñ ad giøra sijna Doottur aptur Lifande.

I. Textanũ stendr/ad þ hafe vered Høfdinge nockr. Eñ ecke var þ Ver alldlegrar Stiettar Madur/edur Strijdshøfdinge/helldur Skoolaherra edur Samkundu Hwssens Høfdinge/ s Lucas vottar i 8. Cap. Nafn hañ seiger same Gudspiallamadur Lucas/ad vered hafe Jairus/ hvørt Nafn ad þijdest so miked sim̃ Vpplijstur/hvad hønum somde vel/og hæf de ad bera/ þar Gud hafde so Vpplijst hañ/ ad hñ hafde feinged saña Þecking a Endurlausnara Heimsins / Herranum JEsu CHristo.

Hier verdur oss nu framveigis kient/ hvøriar Dygder og Mañkoste einũ Skoolameystra edur Kieñemañe bere ad hafa. Sem er fyrst/ Ad þm̃ byriar ad vera vel upplystũ/ ecke alleinasta j Lærdoomenũ/helld ur og so j Lifnadenũ/ [illegible] goodu Framferde/ so þr giete þss betur Kie nt og Vndervijsad sijnũ Skoolapilltum og Sooknarbørnum.

Þar næst eiga þr/ af Dæme þssa Høfdingia Jairi/ ad læra/ Ad

 vera Guds

